# Biflíusøgur

handa unglingum,

íslenzkadar

og lagadar eptir biflíusøgum

C. F. Balslevs

af

Ólafi Pálssyni,

prófasti í Kjalarness þingi og

dómkirkjupresti.



Reykjavík 1859.

Prentadar í prentsmidju Íslands, á kostnad hennar,

hjá E. Þórdarsyni.

# Til Lesendanna.

Margir af embættisbrædrum mínum hafa kvartad yfir því, ad ekki væru til á Íslenzku biflíusøgur svo stuttar og audveldar, ad med allri nærgætni mætti krefja þess af ungmennum þeim, er búast undir fermingu, ad þau ýmist lærdu þær eda kynntu sèr nokkurn veginn til fullnustu. Þetta virtist því bagalegra, sem því verdur varla neitad, ad heldur gjørist minna um biflíulestur í heimahúsum, og ungmennum berst því sídur á þenna veg sá fródleikur, sem er svo mikilsverd undirstada trúarbragdaþekkingarinnar. Hingad til hafa ekki verid til á Íslenzku þær biflíusøgur, sem hafi tekizt ad ná almennings hylli og ráda bætur á þessu. Eg hefi því varid nokkrum frístundum mínum til þess ad íslenzka, og laga eins og bezt virtist eiga vid, þær stuttu biflíusøgur, sem hèr koma fyrir almennings sjónir. Þær eru fyrst ritadar á

Dønsku af C. F. Balslev, stiptprófasti, og þó ekki sè langt síđan þær komu út í fyrsta sinni, því høfundurinn er miđaldra mađur, þá var fyrir 3 árum síđan búiđ ađ prenta þær upp aptur n í u sinnum. Vil eg telja þetta til merkis um, hve almenna hylli þær hafa unniđ. Eins og þær nú koma fram á voru máli, geta þær ekki í eiginlegum skilningi kallazt útlegging: frumritinu er víđa fylgt orđrètt, en á støku stađ er nokkru sleppt úr, á øđrum støđum er nokkru vikiđ lítiđ eitt viđ, eđa einhverju bætt inn í, og vona eg, ađ þeir, sem nákvæmar vilja gæta ađ því, sjái, ađ þađ er ekki ófyrirsynju gjørt. En ein regla er þađ, sem eg hefi støđuglega fylgt, og hún er, ađ láta orđ biflíunnar aldrei koma øđruvísi fram, þar sem því varđ viđ komiđ, en eins og þau eru í útgáfu hennar 1841 og sem nú er veriđ ađ prenta ađ nýju. Þetta virđist flestum ómissandi af því, ađ þađ varđar miklu, ađ þađ, sem unglingurinn nemur fyrst af heilagri ritningu, sè sem minnst sundurleitt hinu, sem ætlandi er, ađ hann međ varandi aldri kynni sèr beinlínis af hinni helgu bók sjálfri. Međ þessarri athugasemd er øllu því svarađ, sem

vid vikur málfæri á bókinni: þad á og má fyrst breytast, þegar því er breytt á biflíunni sjálfri. Verk þetta hefi eg unnid fyrir prentsmidju Íslands, og er rit þetta, hvort heldur þad verdur prentad sjaldnar edur optar, hennar eign fyrir alda og óborna.

Ad sídustu bid eg Gud, sem gefur ávöxtinn, ad blessa þetta starf mitt hinum ungu sálum, sem ætlad er ad hafa not af því.

Reykjavík, í júnímán. 1858.

Ó. Pálsson.

---

# Frásøgur
## úr gamla testamentinu.

---

### 1.
### Skøpunin.

Í upphafi skapadi Guð himin og jørd. Og jørdin var í eydi og tóm og myrkur yfir djúpinu. En þá sagdi Guð: „verdi ljós“, og þar vard ljós. Þetta gjørdi Guð fyrsta daginn, og þannig skapadi hann á sex døgum alla hluti með ordi sínu. Hinn annan dag gjørdi Guð festingu himinsins yfir jørdunni. Þridja daginn adskildi hann vatnið frá þurrlendinu og lèt upp spretta af jørdunni allskonar grøs og jurtir og trè. Fjórða daginn setti Guð sólu, tungl og stjørnur á himininn, að þau skyldu lýsa jørdunni og skipta tímanum. Fimmta daginn skapadi Guð fisk-

ana í sjónum og fuglana undir festingu himinsins, og sjötta daginn skapadi hann öll önnur dýr.

Og er öllu þessu var lokid, sagdi Gud: „vèr viljum gjöra manninn eptir vorri mynd og líkingu, svo ad hann drottni yfir fiskum sjáfarins og yfir fuglum loptsins og yfir fènadinum á allri jördunni og yfir öllum skridkvikindum, sem hræraft á jördunni“. Þá skapadi hann manninn eptir sinni mynd, hann skapadi þau karlmann og konu. Karlmanninn, sem hèt Adam, myndadi hann af jardarleiri og blès lifandi anda í hans nasir, og hann setti Adam í aldingardinn í Eden til ad yrkja hann og vakta. Sídan sagdi Gud: „þad er ekki gott ad madurinn sè einsamall, eg vil gjöra honum medhjálp eptir hans mynd“. Þá lèt Gud Adam falla í fastan svefn, og hann tók eitt af hans rifjum og myndadi af því konuna, sem hèt Eva og leiddi hana til Adams. Þá sagdi Adam: „þetta er bein af mínum beinum og hold af mínu holdi.

Þess vegna skal madurinn yfirgefa fødur sinn og módur sína og búa vid eiginkonu sína. Þau munu verda einn madur". Og Gud blessadi þau og sagdi: „verid frjóssøm og margfaldizt og uppfyllid jørdina og gjørid ykkur hana undirgefna". Og Gud sá allt, sem hann hafdi gjørt, og sjá, þad var yfrid gott.

Sjøunda daginn hvíldist Gud af øllu sínu verki, og hann blessadi og helgadi hinn sjøunda dag.

## 2.

## Syndafallid.

Í aldingardinum í Eden, sem einnig er nefndur Paradís, hafdi Gud látid spretta allskonar trè, sem voru føgur á ad líta og gód ad eta af, og lífsins trè í midjum aldingardinum og skilningstrèd góds og ills. Og Gud hafdi sagt vid manninn: „af øllum trjám í aldingardinum máttu eta, en af skilningstrènu góds og ills máttu ekki eta; þvi nær sem þú

etur af því, skaltu vissulega deyja". En høggormurinn var slægur og sagði við konuna: „ekki munuð þið deyja, því Guð veit, að nær sem þið etið af því trè, munu ykkar augu upp ljúkast, og þið munuð verða eins og Guð í að þekkja gott og illt". En er konan sá, að trèð var fagurt á að líta og hèlt að það væri ágætt trè til að fá skilning af, þá tók hún af áverti þess og át, og hún gaf manni sínum líka og hann át.

En er þau høfðu gjørt þetta, blygðuðust þau hvort fyrir øðru; þau urðu þess vør, að þau voru nakin og festu saman fíkjuviðarbløð og gjørðu sèr mittisskýlur. Og er þau heyrðu røddu Drottins, føldu þau sig á milli trjánna. Þá kallaði Drottinn á Adam og sagði: „hvar ertu?" Adam svaraði: „eg heyrði þína røddu í aldingarðinum og varð hræddur, því eg er nakinn og faldi mig". En Drottinn sagði: „hefir þú etið af því trè, sem eg bannaði þèr að eta af?" Þá kenndi Adam Evu um, og Eva aptur høggorminum. En hinn rèttláti

Guð boðaði þeim hegninguna fyrir synd þeirra. Við konuna sagði hann: „mikla mun eg gjøra þjáningu þína. Með sótt skaltu fæða þín børn“. Og við Adam sagði hann: „í sveita þíns andlitis skaltú þíns brauðs neyta, þangað til þú hverfur aptur til jarðarinnar“. En við høggorminn sagði Drottinn: „konunnar sæði skal merja þitt høfuð“. Og Drottinn rak menniña úr aldingarðinum, í burtu frá lífsins trè.

## 3.

## Kain og Abel.

Elztu synir Adams og Evu voru Kain og Abel. Kain var jarðyrkjumaður, en Abel fjárhirðir. Og þá er fram liðu stundir, færðu þeir báðir Guði þakkarfórnir. Kain færði Drottni fórn af gróða jarðarinnar, en Abel af frumburðum hjarðar sinnar. En Guð, sem lítur á hjartað, hafði velþóknun á fórn Abels, en ekki Kains. Þá reiddist Kain ákaflega og hans andlit varð niðurlútt. Þá

sagdi Drottinn vid hann: „því reidist þú svo og því ertu svo nidurlútur? Ef þú hefir rètt gjørt, þarftu ekki ad vera nidurlútur; en ef þú gjørir ekki rètt, þá liggur syndin vid dyrnar, en drottna þú yfir henni". En Kain hirti ekki um advørun Drottins, og einu sinni, er hann var á akri med Abel bródur sínum, drap hann hann. Þá sagdi Drottinn vid Kain: „hvar er Abel bródir þinn?" Kain svaradi: „þad veit eg ekki; á eg ad vakta bródur minn?" En þá sagdi Drottinn vid hann: „hvad hefir þú gjørt? rødd þíns bródur blóds hrópar til mín af jørdunni; og sèrtu nú bølvadur á jørdunni; þegar þú erjar jørdina, skal hún hèr eptir ekki gefa þèr sinn gróda; landflótta og flakkandi skaltu vera á jørdunni". Þá sagdi Kain: „mín synd er stærri en svo, ad eg geti hana borid: hver sem hittir mig mun drepa mig". Og hann flýdi í burt til framandi lands.

## 4.
## Set og Enok.

Guð gaf Adam og Evu annan son í stað Abels, og þau nefndu hann Set. Adam lifði í mörg ár eptir þann tíma og átti sonu og dætur, sem vèr ekki kunnum að nefna. En er hann var 930 ára gamall, þá dó hann. Set og hinir fyrstu niðjar hans urðu nær þúsund ára gamlir. Metúsala varð elztur þeirra allra; hann var 969 ára, þá er hann dó. Einn af niðjum Sets hèt Enok. Hann gekk með Guði, og er hann hafði lifað hèr á jörðunni 365 ár, tók Guð hann burtu hèðan, án þess hann dæi, og sýndi þar með hinum föllnu mönnum, hvernig hinir guðhræddu komast frá dauðanum til lífsins.

## 5.
## Syndaflóðið.

En er menn tóku að fjölga á jörðunni, þá sá Guð að illska þeirra var mikil, og hann ásetti sèr að afmá þessa spilltu kynslóð

af jørdunni. En guðhræddur maður, er Nói hèt, fann náð í augum Drottins. Eptir skipun Drottins byggði hann stórt skip, sem er kallað ørkin. Og Nói gekk í ørkina og kona hans, og synir þeirra þrír, Sem, Kam og Jafet og konur þeirra. Guð lèt Nóa einnig taka með sèr í ørkina allskonar dýr, sjø og sjø af sumum, en af sumum twø og twø. Nói safnaði þangað einnig fæðslu, til næringar mønnum og dýrum. Síðan lèt Guð rigna úr skýjunum og uppsprettur undirdjúpsins opnast. Og yfir jørðina rigndi fjørutíu daga og fjørutíu nætur, og vatnið varð svo mikið á jørðunni, að það gekk fimmtán álnir upp yfir fjøllin. Þannig drukknuðu allir menn og øll dýr á jørðunni, nema Nói og ættmenn hans og dýr þau, sem voru með honum í ørkinni.

Að ári liðnu var jørðin aptur þur. Þá gekk Nói og ættingjar hans og øll dýrin úr ørkinni, sem hafði numið staðar á fjallinu Ararat. Nói byggði þá Drottni altari og

færdi honum þakkarfórn. Þá blessadi Gud Nóa og sonu hans og sagdi: „medan jørdin er vid lýdi, skal hvorki linna sád nè uppskera, frost nè hiti, sumar nè vetur, dagur nè nótt".

## 6.

## Abraham.

### 1. Køllun Abrahams.

Smámsaman gleymdu flestir menn hinum sanna lifanda Gudi og tilbádu í stad hans allskonar dauda hjágudi. Þá valdi Drottinn gudhræddan mann, sem verda skyldi ættfadir mikillar þjódar, og hjá þeirri þjód átti þekkingin á Gudi ad vera geymd, þangad til Frelsarinn kæmi. Madur þessi hèt Abraham.

Frá skøpun heimsins voru lidnar nálægt því tvær þúsundir ára, og frá syndaflódinu hálft fjórda hundrad ára, þegar Drottinn sagdi vid Abraham, sem þá bjó langt inni í Austurálfu heims: „far þú burt úr þínu landi,

og frá þínu heimkynni og úr þíns føðurs húsi, til þess lands, sem eg mun vísa þèr á. Og eg mun gjøra þig að mikilli þjóð, og af þèr skulu allar ættkvíslir jarðarinnar blessun hljóta". Þá lagði Abraham á stað, og hann tók með sèr Søru konu sína og Lot bróðurson sinn og allt fólk þeirra og fènað; þeir komu til Kanaans lands. Land þetta gaf Drottinn Abraham og niðjum hans, og Abraham settist þar að. Samt hafði hann enn þá ekki støðugan bústað, heldur færðist um landið með hinar miklu hjarðir sínar og bjó í tjaldi, sem hann gat flutt með sèr.

## 2. Friðsemi Abrahams.

En Lot átti einnig mikinn fènað. Og þar varð sundurþykkja milli Abrahams hirðara og Lots hirðara. En er Abraham heyrði það, þá mælti hann við Lot: „heyrðu! engin missklíð sè milli mín og þín, ekki heldur milli minna og þinna hirðara, því við erum bræður. Stendur ekki allt landið opið? viljir þú til vinstri, þá fer eg til hægri handar; og viljir

þú til hægri, þá fer eg til vinstri". Þá kaus Lot landið í kringum Sódóma, sem þá var frjóssamt og fagurt.

### 3. Eðallyndi Abrahams.

Nokkru síðar frètti Abraham, að fjórir konungar væru komnir og hefðu rænt Sódóma og flutt í burtu Lot og fjárhluti hans. Abraham bjó þegar alla vopnfæra menn sína, 318 manns, náði óvinum sínum og rak þá á flótta, og tók frá þeim alla fjárhluti og fólkið, sem þeir høfðu hertekið. Konungurinn í Sódóma vildi gefa Abraham alla þá fjárhluti, sem hann hafði tekið frá óvinunum. En Abraham svaraði honum: „eg tek hvorki þráð nè skóþveng af øllu, sem þèr tilheyrir".

### 4. Drottinn kemur til Abrahams.

Abraham var orðinn nær hundrað ára gamall, og mørg ár voru liðin frá því er Drottinn leiddi hann til Kanaanslands og hèt honum því, að niðjar hans skyldu verða að mikilli þjóð, og að af honum skyldu allar ættkvíslir jarðarinnar blessun hljóta; en enn

þá átti hann engin børn með Søru konu sinni. Þá bar svo til einn dag, er Abraham sat í tjalddyrum sínum í Mamres lundi hjá Hebron, að hann sá þrjá menn koma. Hann stóð upp og gekk á móti þeim, og bað þá hvíla sig og matast. Hann flýtti sèr til Søru og lèt hana búa þeim máltíð. En þessir þrír menn voru Drottinn og tveir englar. Á meðan Drottinn nú sat hjá Abraham, hèt hann honum því, að Sara skyldi eignast son. En er Sara heyrði það, hló hún í sínu hjarta, og hugði sig of gamla til að eignast barn. En Drottinn sá hvað hún hugsaði og sagði: „er Drottni nokkuð ómøgulegt? í þetta mund mun eg aptur koma til þín að ári, og Sara hefir þá eignazt son“.

### 5. Borgin Sódóma er eyðiløgð.

Síðan birti Drottinn Abraham, að hann ætlaði að eyðileggja borgina Sódóma, vegna stórsynda hennar. En Abraham aumkaðist yfir hina ógæfusømu og bað Drottinn þirma borginni, ef í henni fyndust fimmtíu rèttlátir menn.

Þessu hèt Drottinn honum. En þá var Abraham hræddur um, ad þar fyndust ekki svo margir, og sagdi: „æ, eg hefi dirfzt ad tala vid Drottinn, en þótt eg sè mold og aska; kannske fimm skorti á fimmtíu rèttláta“. Þannig hèlt hann áfram ad bidja, þangad til komid var ad tíu. Og Drottinn hèt ad þirma borginni, ef í henni fyndust tíu rèttlátir. En þar fundust ekki einu sinni tíu. Samt vildi Drottinn ekki afmá hinn rèttláta med hinum gudlausa, og því lèt hann þá tvo engla fara til Sódóma; en þeir leiddu Lot og konu hans og tvær dætur út úr borginni, og budu þeim ad flýta sèr og líta ekki til baka. Þau komust því øll af, nema kona Lots; hún leit til baka og vard ad saltstólpa. En Gud lèt rigna eldi og brennisteini yfir Sódóma og Gómorra, og hid frjóssama land, þar sem borgirnar høfdu stadid, vard ad stødu-vatni, sem er kallad hafid dauda.

## 6. Reynsla Abrahams.

Sara fæddi Abraham son, í þad mund,

sem Gud hafdi sagt; en Abraham nefndi son þenna Ísaak. Þá var Abraham 100 ára gamall. Þegar Ísaak var tekinn ad þroskast, freistadi Gud Abrahams og mælti til hans: „tak þú son þinn, þinn einka son, sem þú elskar, og far þú í landid Moría, og offra honum þar sem brennifórn á því fjalli, sem eg mun vísa þèr á". Abraham var fús á, ad gjøra allt, sem Drottinn baud honum, og hann var snemma á fótum, og fór med son sinn Ísaak og tvo þræla, þangad sem Gud sagdi honum. Á þridja degi sá Abraham stadinn álengdar; þá lèt hann þrælana verda eptir, en tók vidinn til brennifórnarinnar og lagdi syni sínum Ísaak á herdar, en tók eldinn og hnífinn sèr í hønd, og svo gengu þeir bádir saman. Þá mælti Ísaak: „fadir minn! hèr er eldurinn og vidurinn, en hvar er saudurinn til brennifórnarinnar?" Abraham sagdi: „Gud mun sjá fyrir saud til brennifórnarinnar, sonur minn!" og svo gengu þeir tveir einir saman. Þegar þeir komu á stadinn, byggdi

Abraham altari og lagdi vidinn á það, batt son sinn Ísaak og lagdi hann upp á altarid. Og hann rètti út hønd sína og tók hnífinn. En þá kalladi engill Drottins til hans af himni: „legg þú ekki hønd á sveininn, og gjørdu honum ekkert, því nú veit eg að þú óttast Gud, ad þú synjadir mèr ekki um þinn son, þinn einasta“. Þá vard Abraham litid vid og hann sá hrút, sem hèkk á hornunum í runna nokkrum. Hann tók hrútinn og offradi honum, sem brennifórn, í stad sonar síns. Þá kalladi Drottinn aptur af himni til Abrahams og sagdi: „fyrst ad þú gjørdir slíkt, þá skal eg blessa þig og margfalda þitt kyn, sem stjørnur á himni, sem sand á sjáfarstrønd; af þínu afkvæmi skulu allar þjódir á jørdunni blessun hljóta“.

## 7.

## Ísaak.

Þegar Sara var dáin, sendi Abraham hinn gamla þjón sinn Eleasar til lands

þess, er ættingjar hans bjuggu í, til ad sækja konu handa Ísaak. Eleasar lagdi af stad med tíu úlfalda og marga dýrgripi. En þegar hann kom ad borg þeirri, sem bródir Abrahams bjó í, þá ádi hann úlføldum sínum utan borgar hjá brunni nokkrum; en þad var um kvøld, um þad bil er stúlkur gengu út ad sækja vatn. Þá bad hinn trúi þjón til Guds og sagdi: „Drottinn, Gud húsbónda míns Abrahams, láttu mig sjá þad í dag, ad þú audsýnir miskun mínum húsbónda Abraham. Sjá, eg stend vid þenna brunn, og dætur bæjarmanna koma hingad ad sækja vatn; og ef þad skedur, ad sú stúlka, sem eg segi vid: hneig þína skjólu nidur og lát mig drekka, ad hún þá svarar: drekk þú, eg vil líka vatna þínum úlføldum; sú hin sama sè sú, sem þú hefir útvalid þínum þènara Ísaak". Ádur en Eleasar hafdi lokid bæn sinni, kom Rebekka, dóttir Betúels, bródursonar Abrahams. Hann gekk þá á móti henni og bad hana um nokkud ad drekka; en hún svaradi:

„drekk, minn herra!“ En er hann hafdi drukkid, mælti hún: „líka skal eg ausa þínum úlfølldum vatn“. Hún hljóp ad brunninum og sótti vatn øllum úlføldum hans. Þá gaf Eleasar henni eyrnahring úr gulli og tvø armbønd, og spurdi hverra manna hún væri. En er hann heyrdi þad, lofadi hann Drottinn, sem hafdi látid ferd hans lukkast. Rebekka hljóp þá heim, og sagdi frá því, sem sked var; en Laban, bródir hennar, fór út til Eleasars og baud honum heim. Eleasar bar nú upp erindi sitt, og fèkk jáyrdi stúlkunnar og ættingja hennar. Hann flutti þá Rebekku heim med sèr, og hún vard kona Ísaaks, og hann elskadi hana.

Abraham lifdi eptir þetta í mørg ár, og er hann dó, var hann 175 ára gamall, og Ísaak jardadi hann hjá Søru konu hans. Gud blessadi Ísaak, svo hann vard audugur og vel metinn madur. Þau Ísaak og Rebekka lifdu saman í tuttugu ár, ádur þeim vard barna audid. Þá bænheyrdi Drottinn

Ísaak og gaf þeim tvo sonu, Esau og Jakob, sem voru tvíburar.

## 8.

## Jakob.

Þegar synir Ísaaks voru vaxnir, varð Esau veiðimaður, en Jakob fjárhirðir. Esau var frumgetinn, en hann mat lítils frumburðarrètt sinn og seldi Jakob hann. Þegar faðir þeirra var orðinn gamall, vildi hann samt gefa Esau blessun sína, því hann var frumgetinn. En er Rebekka komst að þessu, taldi hún Jakob á, að látast vera Esau, svo hann gæti fengið blessun föður síns; og Jakob tókst þetta, því hinn gamli Ísaak var blindur og þekkti hann ekki. Af þessu hataðist Esau við Jakob og hèt að drepa hann. Foreldrar Jakobs sendu hann því burtu til Labans, móðurbróður hans. Á ferðinni lagði hann sig eitt sinn að kvöldi dags til svefns á víðavangi. Þar dreymdi hann, að hann sæi stiga, sem stóð á jörðunni og náði upp

til himins, og englar Guds fóru upp og nidur stigann. En Drottinn stód uppi yfir stiganum og sagdi: „eg em Drottinn, Gud Abrahams, fødur þíns, og Gud Ísaaks; þad land, sem þú hvílist á, mun eg gefa þèr og þinni ætt, og þínir nidjar skulu verda sem dupt jardar, og af þèr munu allar ættir jardarinnar hljóta blessun. Sjá, eg em med þèr og vardveiti þig, hvert sem þú fer, og eg mun aptur flytja þig inn í þetta land; því ekki mun eg sleppa af þèr hendinni, þangad til eg hefi gjørt allt, sem eg hefi vid þig talad". Þá vaknadi Jakob og vard hræddur og sagdi: „hèr er Guds hús, hèr er hlid himinsins". Sídan fór Jakob til Labans og var hjá honum í tuttugu ár, og giptist bádum dætrum hans, Leu og Rakel, og Gud blessadi hann í øllu, sem hann tók sèr fyrir hendur.

Þegar hann sídan fór aptur til Kanaanslands, kom hann þar nærri, sem Esau bjó; en er hann frètti ad Esau kæmi á móti honum

med fjøgur hundrud manns, vard hann mjøg hræddur. Hann gjørdi þá bæn sína til Drottins og minntist á loford hans og sagdi: „eg sleppi þèr ekki, nema þú blessir mig“. En þegar hann kom til Esau, var allri óvináttu lokid; hann umfadmadi Jakob og þeir grètu bádir. Sídan fór Jakob til Kanaanslands og eignadist tólf sonu; fremstir þeirra voru Levi og Júda, synir Leu, og Jósep og Benjamín, sem voru synir Rakelar og yngstir brædranna.

## 9.

## Jósep.

### 1. Jósep er seldur mansali af brædrum sínum.

Jakob elskadi Jósep meir en alla sonu sína, en þeir øfundudu hann af því. Þeir høtudust enn fremur vid hann, því hann hafdi dreymt drauma, sem hann sagdi þeim frá. Einu sinni dreymdi hann, ad hann og brædur hans byndu kornbindi á akrinum, og þeirra kornbindi snèru sèr og lutu hans korn-

bindi. Öðru sinni dreymdi hann, að sólin tunglið og ellefu stjørnur lytu honum. Þegar nú bræður hans einu sinni hèldu hjørðum føður þeirra á haga langt í burtu, sagði Jakob við Jósep: „far þú og vit, hvert bræðrum þínum líður vel og hjørðinni, og láttu mig svo vita það". Hann fór þá og leitaði þeirra. En er þeir sáu hann álengdar, søgðu þeir: „þarna kemur draumamaðurinn; vèr skulum drepa hann og kasta honum í gryfju og svo segjum vèr: villudýr hefir etið hann; þá skulum vèr sjá, hvað úr draumum hans verður". Rúben, sem var elztur bræðranna, gat samt talið svo um fyrir þeim, að þeir drápu hann ekki, heldur køstuðu honum í þurra grøf, og hafði hann í huga að hjálpa honum þaðan aptar. En að vørmu spori fór kaupmanna lest þar hjá; þá sagði Júda við bræður sína: „vèr skulum selja hann kaupmønnunum, en ekki leggja hønd á hann, því hann er vor bróðir". Þá drógu þeir Jósep upp úr gryfjunni og seldu kaupmønnunum

hann. Rúben var þá ekki viðstaddur; en er hann kom að gryfjunni, til þess að bjarga Jósep, þá varð hann mjøg hryggur, að hann var þar ekki. Þeir tóku nú kyrtil Jóseps, sem þeir høfðu fært hann úr, velktu hann í blóði, sendu føður sínum og lètu þessa orðsending fylgja: „þetta høfum við fundið, gáðu að, hvert það muni vera kyrtill sonar þíns". En Jakob þekkti hann, og trúði því, að villudýr hefði rifið Jósep í hel, og hann harmaði mjøg son sinn.

### 2. Jósep hjá Potifar og í myrkvastofu.

Kaupmennirnir fóru til Egyptalands og seldu Jósep þar mansali høfðíngja nokkrum, sem hèt Potifar. En Guð var með Jósep, svo hann var lángefinn; Potifar unni honum og fèkk honum umsjón yfir øllu húsi sínu. Frá þeim tíma var blessun Drottins yfir øllum hlutum í húsi hins Egypzka manns. En Potifar átti illa konu, sem vildi tæla Jósep til óskírlífis, og þá sagði Jósep við hana: „hvernig skyldi eg aðhafast svo mikla óhæfu,

og syndga á móti Gudi!" Hún rægdi hann sídan vid mann sinn, og sagdi ad hann hefdi viljad smána sig. Potifar trúdi konu sinni, og lèt setja Jósep í myrkvastofu. En Drottinn var med Jósep, og hann fann nád hjá forstjóra myrkvastofunnar, svo hann setti Jósep til ad gæta allra fanganna.

### 3. Jósep rædur draum Faraós.

Jósep var tvø ár í myrkvastofu; en ad þeim lidnum fèkk hann ekki einungis frelsi sitt, heldur komst einnig til metorda. Þad skedi med þessum hætti. Konunginn í Egyptalandi, sem kalladist Faraó, dreymdi einu sinni undarlegan draum. Hann þóttist standa vid ána Níl, og sjá sjø feitar kýr koma upp úr ánni, en á eptir þeim sjø magrar kýr, sem átu upp hinar feitu, en voru eins magrar eptir sem ádur. Aptur dreymdi hann, ad hann sæi sjø axin þrístileg spretta á einni støng, en á eptir þeim spruttu upp ønnur sjø, grønn og kalin, sem uppsvelgdu hin sjø þrístilegu axin. Faraó var hræddur um, ad draumur

þessi hefdi illa þýdingu, og lèt kalla saman alla vitringa Egyptalands; en enginn gat rádid drauminn. Þá kom hinn ædsti skenkjari, og sagdi konungi frá, ad þegar hann og hinn ædsti bakari hefdu, fyrir tveim árum, verid settir í myrkvastofu, þá hefdi þá báda á sømu nóttu dreymt undarlega drauma; þeir hefdu sagt draumana ungum manni, sem var í myrkvastofunni; en hann rèdi draumana eins og þeir þýddu. Faraó lèt þá sækja þenna unga mann; en þad var Jósep. Þegar Jósep heyrdi draum konungs, sagdi hann, ad Gud vildi med þessu auglýsa Faraó, ad koma mundu sjø frjósemdar ár, en á eptir þeim sjø hallæris ár, sem mundu eyda øllum nægtum gódu ár-anna. Hann rèdi Faraó því til, ad setja mann yfir landid, sem lèti safna matvælum á gódu árunum, og geyma til hallæris ár-anna, svo landid eydilegdist ekki af hungri. Þetta rád líkadi Faraó vel, og af því hann sá, ad Gud hafdi gefid Jósep mikil hygg indi, setti hann hann yfir allt Egyptaland. Jósep

ferdadist þá um landid og safnadi miklu korni á hinum gódu árunum.

### 4. Brædur Jóseps koma til Egyptalands.

Þegar hallæris árin komu, vard mikid hungur í øllum nálægum løndum; en korn var til í Egyptalandi og menn komu úr øllum áttum ad kaupa korn af Josep. Í Kanaanslandi var einnig hallæri, og er Jakob frètti, ad korn væri salt í Egyptalandi, lèt hann hina elztu sonu sína tíu ferdast þangad, til ad kaupa korn, en hèlt Benjamín eptir heima. Jósep þekkti brædur sína, er þeir komu til hans, en þeir þekktu hann ekki, og er þeir lutu honum, hugsadi hann til drauma þeirra, sem hann hafdi dreymt um þá. Samt sem ádur duldist hann fyrir þeim fyrst um sinn, því hann vildi kynna sèr skaplyndi þeirra. Hann lèt því vardveita þá í þrjá daga; en ad þeim lidnum, sagdi hann þeim, ad níu af þeim mættu fara heim, en einn yrdi ad vera eptir í vardhaldi, þangad til þeir kæmu aptur med hinn yngsta bródur sinn, sem þeir høfdu getid

um. Þá søgdu þeir sín á milli: „þetta eigum vèr sannarlega skilid fyrir bródur vorn; vèr sáum hans sálar angist, þegar hann bad oss vægdar; en vèr heyrdum hann ekki". Þegar Jósep heyrdi þetta, snèri hann sèr undan og grèt. Þeir fóru nú heim; en er kornid var uppgengid, sem þeir høfdu sótt til Egyptalands, fóru þeir þangad aptur og tóku Benjamín med sèr. Jósep reyndi þá enn á ný; en er hann sá, ad þeir unnu mjøg hinum aldrada fødur sínum og Benjamín, þá gat hann ekki lengur dulid fyrir þeim hver hann var. Hann grèt hástøfum og mælti: „eg em Jósep, lifir fadir minn enn?" Og er brædrum hans vard svo bilt vid, ad þeir gátu ekki svarad honum, sagdi hann: „komid hingad til mín; eg em Jósep bródir ydar, sem þèr hafid selt til Egyptalands. Látid þad ekki hryggja ydur, því til lífs vidurhalds hefir Gud sent mig hingad á undan ydur". Sídan sagdi hann: „hradid ydur nú og farid heim til fødur míns og segid til hans: svo

segir Jósep, sonur þinn: Guð hefir gjørt mig að herra alls Egyptalands; kom þú til mín, og kom sem fyrst". Þeir fóru síðan heimleiðis og søgðu føður sínum: „Jósep lifir enn og er herra yfir øllu Egyptalandi". Jakob trúði þeim ekki í fyrstu; en er þeir báru honum øll orð Jóseps og hann sá vagnana, sem Jósep hafði sent til að flytja hann á, þá lifnaði hann við og sagði: „Jósep sonur minn lifir enn; eg vil fara og sjá hann áður en eg dey".

### 5. Jakob fer til Egyptalands.

Jakob fór þá til Egyptalands með alla ættingja sína, 70 að tølu. Á veginum talaði Guð við hann í sýn á náttarþeli og sagði: „Eg em Guð feðra þinna; óttast þú ekki að fara niður til Egyptalands, því þar mun eg gjøra þig að mikilli þjóð, og Jósep skal veita þèr þar nábjargirnar". Þegar Jakob kom til Egyptalands og sá Jósep, fèll hann um háls honum og grèt lengi og sagði: „nú vil eg deyja, fyrst eg er búinn að sjá þig, og fyrst

þú ert enn á lífi". Faraó gaf Jakob og ættingjum hans landið Gósen, og bjuggu þeir þar afsíðis; því fjárhirðarar voru Egyptalandsmønnum viðbjóðslegir.

### 6. Dauði Jakobs.

Jakob var 130 ára gamall, er hann kom til Egyptalands, og þar lifði hann í seytján ár. En þegar hann fann dauðann nálægjast, sagði hann við Jósep: „sjá, eg dey, og Guð mun vera með yður og mun flytja yður aptur í land yðar feðra". Hann kallaði til sín alla sonu sína og blessaði þá. Síðan andaðist Jakob, og Jósep flutti lík hans til Kanaanslands, og jarðaði hann í grøf Abrahams og Ísaaks. Þegar Jakob var dáinn, urðu bræður Jóseps hræddir um, að hann mundi hefna sín á þeim. En Jósep sagði til þeirra: „óttizt ekki, þèr ætluðuð að gjøra mèr illt, en Guð ásetti að snúa því til góðs, til að gjøra það, sem nú er fram komið, og halda mørgu fólki við lífið".

### 7. Daudi Jóseps.

Jósep vard 110 ára gamall; en ádur hann dó, tók hann eid af ættingjum sínum, ad þegar Gud flytti þá í þad land, sem hann hafdi svarid ad gefa Abraham, Ísaak og Jakob, þá skyldu þeir flytja bein hans med sèr og jarda þau í landi fedra hans.

## 10.

## Móses.

### 1. Fæding Móses.

Nidjar Jakobs, sem voru kalladir Ísraels fólk eda Ísraels børn, af því Jakob hèt einnig Ísrael, bjuggu í Egyptalandi í 400 ár, og fjølgudu svo mjøg, ad Egyptalandsmenn urdu hræddir um, ad þeir mundu bera sig ofurlida. Faraó sá, eda konungur, sem þá rèdi fyrir Egyptalandi, vissi ekki deili á Jósep, og þjádi Ísraelsfólk med þungri þrælavinnu. En er þeir fjølgudu því meir, baud hann ad kasta í ána Níl øllum sveinbørnum, sem fæddust á medal þeirra. Um þær mundir

fæddist af Levís ætt fagurt sveinbarn. Módir barnsins gat leynt því í þrjá mánudi; en er hún gat það ekki lengur, bjó hún til ørk af reyr og lagdi sveininn þar í, en lèt ørkina út í sefid hjá árbakkanum, Í því bili kom dóttir Faraós ad ánni. Hún leit ørkina í sefinu, og lèt sækja hana. En er hún sá, ad í henni var sveinbarn, sem grèt, kenndi hún í brjósti um sveininn, lèt fóstra hann og tók sèr í sonar stad. Hún kalladi hann Móses, og lèt kenna honum alla speki Egyptalandsmanna.

## 2. Køllun Móses.

Þegar Móses var ordinn fulltída madur, fór hann á fund ættbrædra sinna, og sá hvernig þeir voru þjádir. Hann sá hvar Egypzkur madur laust einn af Ísraelsmønnum, og vó hann þann mann. Af þessu vard hann ad flýja í burtu, og kom í Midíansland. Þar var hann í mørg ár hjá Jetró kennimanni og gætti hjardar hans. Einu sinni, er hann hèlt fènu á eydimørku, sá hann þyrni-

runn, sem logadi, en brann ekki. Og er hann kom þar að, taladi Guð til hans úr þyrnirunninum og sagdi: „drag skó þína af fótum þèr, því sá stadur, er þú stendur á, er heiløg jørd. Eg em Guð fødur þíns, Guð Abrahams, Guð Ísaaks og Guð Jakobs. Eg hefi sannlega sèð eymd míns fólks í Egyptalandi, og heyrt hversu það kveinar. Eg vil senda þig til Faraós, og þú skalt leida mitt fólk, Ísraelsmenn, út af Egyptalandi". Móses svaradi: „hver em eg, að eg fari til fundar vid Faraó, og leidi Ísraelsmenn út af Egyptalandi; þeir munu ekki trúa mèr og eigi skipast vid ord mín". En Drottinn sagdi: „eg vil vera með þèr" Og hann gaf Móses mátt til að gjøra kraptaverk, til merkis um, að hann væri sendur af Gudi. En er Móses færdi sèr það til afsøkunar, að sèr væri tregt um málfæri og tungutak, þá sagdi Drottinn, að Aron, bródir hans, skyldi koma til móts vid hann, og skyldi hann tala til fólksins, en Móses leggja ordin í munn honum.

Móses fór nú til Egyptalands, og á leidinni mætti Aron honum. Þeir fóru þá fyrst til Ísraelsmanna, og sagdi Aron þeim frá øllu því, er Drottinn hafdi talad vid Móses, en Móses gjørdi tákn í augsýn fólksins. Fólkid trúdi þeim og tilbad Drottinn, ad hann hafdi litid á eymd þess.

### 3. Forherding Faraós.

Sídan fóru þeir Móses og Aron á fund Faraós og søgdu honum frá skipun Drottins, ad hann skyldi gefa Ísraelsmønnum burtfararleyfi úr Egyptalandi. En Faraó sagdi: „hver er sá Drottinn, ad eg skuli gegna honum til þess? Eg þekki ekki þann Drottinn, og Ísraelsmønnum sleppi eg ekki". Eptir þad þyngdi hann vinnunni á fólkinu, svo þad tók ad møgla á móti Móses og Aron, ad þeir hefdu spillt fyrir sèr. Þá fèllst Móses hugur; en Drottinn sagdi vid hann: „þú skalt nú sjá, hvad eg vil gjøra Faraó; því fyrir voldugri hendi skal hann þá lausa láta; fyrir voldugri hendi skal hann keyra þá burtu úr

landi sínu". Eptir það lèt Guð plágur miklar koma yfir Egyptaland, hverja eptir aðra, án þess þær kæmu yfir landið Gósen, sem Ísraelsmenn bjuggu í. En Faraó vildi samt sem áður ekki leysa fólkinu að fara burtu, fyrri en tíunda plágan kom; en hún var í því fólgin, að Drottinn fór á einni nóttu um landið og lèt alla frumburði deyja, frá frumgetnum syni konungsins allt til frumgetnings þrælsins, og alla frumburði fènaðarins. En plága þessi kom ekki niður á Ísraelsmønnum; því Drottinn hafði boðið þeim, að þeir kvøldið áður skyldu í hverju húsi slátra lambi og rýða blóðinu á dyrustafi sína; þá mundi hann ganga framhjá húsum þeirra. Lambið áttu þeir að steikja og eta það með ósýrðu brauði, klæddir til ferðar og standandi með staf í høndum sèr. Þetta bauð Drottinn þeim síðan að gjøra á ári hverju hinn sama dag. Átti það að vera hátíð Drottins, til endurminningar um, að hann frelsaði þá frá dauðanum og

undan ánauð þeirra í Egyptalandi. Þessi hátíð var kölluð Páskahátíð.

### 4. Burtförin úr Egyptalandi.

Þegar Egyptalandsmenn vöknuðu og sáu hvað Drottinn hafði gjört, þá varð óp mikið og hræðsla um allt landið. Faraó reis upp um nóttina og kallaði til sín þá Móses og Aron, og bauð þeim, að bæði þeir og allir Ísraelsmenn skyldu sem fyrst fara burt úr landinu, með allt það, sem þeir ættu. En þegar þeir voru farnir, iðraðist Faraó eptir að hann hafði sleppt þeim; hann veitti þeim því eptirför og náði þeim við hafið rauða. Þegar Ísraelsmenn sáu það, urðu þeir mjög hræddir, mögluðu við Móses og sögðu: „þurftir þú þess vegna að taka oss burt til að deyja hèr á eyðimörku, að engar væru grafir til í Egyptalandi?“ Þá sagði Móses til fólksins: „óttizt ekki, því þessa Egypzku menn, sem þèr sjáið í dag, munuð þèr aldrei nokkurn tíma framar augum líta. Drottinn mun berjast fyrir yður, en þèr skuluð vera kyrrir“. Síðan

rètti Móses, eptir bodi Drottins, hønd sína út yfir hafid, og vatnid skiptist í sundur, svo ad Ísraelsmenn gengu þurrum fótum mitt í gegnum hafid. En er Egyptalandsmenn sóttu eptir þeim, rètti Móses aptur út hønd sína yfir hafid, svo sjórinn fèll saman aptur, og Faraó drukknadi þar og allt lid hans. Þannig frelsadi Drottinn fólk sitt, en Móses og Ísraelsmenn føgnudu og sungu Drottni lofsøng.

## 5. Ferdin um eydimørkina.

Ísraelsmenn áttu ekki lengra eptir til Kanaanslands, en ad þeir hefdu getad nád þangad á fáum vikum; en samt voru þeir á ferd þeirri í 40 ár; því svo lengi lèt Gud þá hrekjast um eydimørk Arabíu, vegna vantrúar þeirra og óhlýdni, ad allir þeir, sem fulltída voru, er þeir fóru úr Egyptalandi, voru dánir á eydimørkinni. Tveir einir lifdu eptir, og hèt annar þeirra Jósúa.

Á medan Ísraelsmenn reikudu um eydimørkina, bar Gud med dásamlegum hætti umhyggju fyrir lífsuppeldi þeirra. Í stadinn fyrir brand

gaf hann þeim Manna. Það voru kringlóttar hvítar smákøkur, sem þeir á morgnana gátu safnað af jørdunni. Þegar þá brast vatn að drekka, þá bauð Guð Móses að slá með staf sínum á hellu nokkra, og spratt þar þegar vatn upp.

### 6. Løggjøfin á Sínaífjalli.

Þegar Ísraelsmenn, skømmu eptir burtfør sína úr Egyptalandi, komu að Sínaífjalli, gekk Móses upp á fjallið. Þar talaði Drottinn til hans og bauð honum að segja Ísraelsmønnum: „þèr hafið sjálfir sèð hvað eg hefi gjørt Egyptalandsmønnum, og hversu eg hefi borið yður á arnarvængjum. Nú ef þèr hlýðið minni røddu grandgæfilega og haldið minn sáttmála, þá skuluð þèr vera mín eiginleg eign um fram allar þjóðir, því øll jørðin er mín“. Þá fór Móses ofan af fjallinu og flutti lýðnum orð Drottins. Allur lýðurinn svaraði: „vèr viljum gjøra allt það, sem Drottinn býður.“ Á þriðja degi eptir þetta lagðist þykkt ský yfir fjallið, með þrum-

um og eldingum; fjallid skalf og lúdurþytur heyrdist, svo allt fólkid vard hrætt. Þá taladi Drottinn til fólksins af fjallinu, og sagdi: „eg er Drottinn þinn Gud, sem útleiddi þig af Egyptalandi, út af þrældómshúsinu. Þú átt ekki ad hafa annarlega Gudi fyrir mèr. Þú átt ekki ad leggja nafn Drottins Guds þíns vid hègóma. Minnstu ad halda hvíldardaginn heilagan. Heidra fødur þinn og módur þína. Þú átt ekki ad slá í hel. Þú átt ekki ad drýgja hórdóm. Þú átt ekki ad stela. Þú átt ekki ad bera falskan vitnisburd á móti þínum náunga. Þú átt ekki ad girnast hús náunga þíns. Þú átt ekki ad girnast þíns náunga ektakvinnu, ellegar hans þjón, ellegar hans þjónustukvinnu, ellegar hans uxa, ellegar hans asna, ellegar nokkud, sem heyrir þínum náungatil."

Auk þessarra tíu bodorda, sem ætíd eiga ad gilda og allir eiga ad halda, gaf Gud Móses mørg løg, sem voru ætlud Ísraelsmønnum einum, þangad til Frelsarinn kæmi. Þannig voru løgin um byggingu tjuldbúdar-

innar, um fórnirnar og um prestana. Tjaldbúdin var stórt tjald, lagad til ad halda gudsþjónustu í því. Henni var skipt í tvo hluti, og umhverfis hana var gardur, sem kalladur var forgardurinn. Í forgardinum var altari, sem brennifórnum var offrad á. Í fremri hluta tjaldbúdarinnar, sem kalladist hid heilaga, stód altari, sem reykelsi var brennt á. Í innri hluta tjaldbúdarinnar, sem hèt hid allrahelgasta, stód gullbúin kista, er køllud var sáttmálsørk; í henni voru geymdar tvær steintøflur, sem Móses hafdi ritad þau tíu bodord á. Enginn mátti koma í tjaldbúdina, nema prestarnir, og í hid allrahelgasta ædsti presturinn einn, og þó ekki optar en einu sinni á ári, þegar hann á fridþægingarhátídinni bar fram fórn fyrir sínar eigin og fólksins syndir. Aron vard fyrstur ædsti prestur; eptir hann átti elzti sonur hans ad taka vid og svo hver af ødrum. Adrir nidjar Arons áttu ad vera prestar, sem færdu fórnir og kenndu lýdnum løgmál

Drottins. Aðrir af Levís ætt, sem nefnduſt Levítar, áttu að vera aðstoðarmenn prest-anna og hafa ýmsa þjónustu við tjaldbúðina.

7. Vantrú Israelsmanna.

Á meðan Móses var hjá Guði á fjallinu, kom fólkið Aroni til að steypa gullkálf, og tilbað það hann. Þegar Móses kom ofan af fjallinu, ávítaði hann þá harðlega. Vantrú þeirra og guðleysi olli honum opt sorgar eptir þetta, og fleirum sinnum hlaut Drottinn að refsa þeim þunglega.

8. Dauði Móses.

Þegar Móses fann dauða sinn nálægjast, kallaði hann Ísraelsmenn saman og sagði við þá: „eg er í dag rètt 120 ára gamall, eg get nú ekki lengur gengið út og inn". Sagði hann þá að Jósua skyldi vera fyrirliði þeirra, og sagði við fólkið: „Drottinn þinn Guð mun sjálfur vera með þèr, hann mun ekki sleppa af þèr sinni hendi, eður yfirgefa þig." Hann minnti það nú á allar hinar miklu velgjörðir Drottins og sagði: „eg hefi lagt fyrir

ydur lífid og daudann, blessanina og bølvanina. Elskid Drottinn, ydar Gud, og hlýdid hans raustu og haldid ydur til hans, því þar er ydar líf undir komid".

Ísraelsmenn høfdu nú verid á eydimørkinni í fjørutíu ár, og voru þeir komnir svo nærri Kanaanslandi, ad ekki var nema áin Jórdan á milli. Móses gekk þá upp á fjallid Nebó; þadan horfdi hann inn í hid fyrirheitna land og andadist sídan.

## 11.

## Jósúa.

Þegar Móses var dáinn, vard Jósúa fyrirlidi Ísraelsmanna. Drottinn taladi vid hann og sagdi: „vertú hughraustur. Eg vil vera med þèr, eins og eg var med Móses". Sídan kalladi Jósúa saman høfdingja fólksins og baud þeim innan þriggja daga ad vera ferdbúnir til ad fara yfir ána Jórdan. Þeir svørudu honum: „vèr skulum gjøra allt þad, sem þú hefir bodid oss, og fara

hvert sem þú sendir oss. Veri Drottinn þinn Guð að eins með þèr, eins og hann var með Móses". Þegar sá dágur kom, er þeir áttu að fara yfir Jórdan, lèt Jósúa prestana ganga á undan og bera sáttmálsörkina; en þegar þeir stigu út í ána, skiptist vatnið í sundur, og stóðu þeir á þurru mitt í ánni, á meðan allt fólkið gekk yfir um þurrum fótum.

Þannig leiddi Drottinn Ísraelsmenn inn í Kanaansland, það land, sem hann hafði gefið Abraham, Ísaak og Jakob og niðjum þeirra. En heiðingjar bjuggu í landinu, og til þess að Ísraelsmenn ekki skyldu læra afguðadýrkun af þeim, ef þeir byggju á meðal þeirra, hafði Guð boðið þeim að reka heiðingjana úr landi. Fyrsta borgin, sem þeir komu að, hèt Jeríkó, og þar sýndi Drottinn, að hann var með þeim; því, eptir boði Guðs, gengu prestarnir sjø daga samfleytt í kringum borgina, en hinn sjøunda daginn, er þeir gjørðu það, og blásið var í básúnur,

hrundu borgarveggirnir nidur og Ísraelsmenn gengu inn í borgina. Þannig nádi Jósúa smámsaman mestøllu Kanaanslandi og skipti því á milli ættkvísla Ísraels. Levis ættkvísl fèkk ekki landeign á einum og sama stad, eins og hinar, heldur 48 stadi, sem lágu á víd og dreif um landid.

Þegar Jósúa var ordinn gamall, kalladi hann saman allan Ísraelslýd og minnti hann á handleidslu Drottins, frá þeim degi, er hann lèt Abraham fara til Kanaanslands og þangad til hann nú hafdi leitt þá inn í hid sama land. Sídan sagdi hann: „óttizt Drottinn og þjónid honum dyggilega. En lítist ydur ekki ad þjóna Drottni, kjósid þá í dag, hverjum þèr viljid þjóna; en eg og mínir ættmenn munum þjóna Drottni“. Þá svaradi lýdurinn: „Drottni Gudi vorum viljum vèr þjóna og hlýda hans røddu“.

## 12.

# Dómararnir.

### 1. Hinir fyrstu dómarar.

Þegar Jósúa var dáinn, og þeir hinir eldri, sem høfdu sèd dásemdarverk Drottins, lètu Ísraelsmenn leidast til afgudadýrkunar, ad dæmum heidingja, sem eptir urdu í landinu. Þá hnignadi þeim, og þeir voru þjakadir af framandi þjódum. En er þeir í neydinni idrudust synda sinna, og bádu Gud hjálpar, uppvakti hann opt hrausta menn á medal þeirra, sem frelsudu þá úr óvina høndum, og stjórnudu sídan í landinu, á medan þeir lifdu. Þessir menn voru nefndir dómarar. Þannig lidu 400 ár, og voru á þeim tíma margir dómarar. Hinn fyrsti hèt Otniel. Einn þeirra var Samson, sem var frægur af hreysti sinni. Hann vann sigur á Filisteum, sem bjuggu útsunnanvert vid Ísraelsmenn, hjá Midjardarhafinu, og voru lengi hinir skædustu óvinir þeirra.

## 2. Elí.

Elí var dómari næst á undan hinum sídasta; hann var einnig ædsti prestur. Hann átti tvo sonu, sem voru ógudlegir og andvaralausir; en hann ávítadi þá ekki hardlega fyrir vonzku þeirra, og því reiddist Drottinn honum. Ísraelsmenn áttu nú aptur í strídi vid Filistea; en er þeir bidu ósigur, færdu þeir sáttmálsørkina med sèr í strídid, í von um, ad þá fengju þeir sigur. Elí var þá gamall mjøg, og sat á stóli hjá veginum, og var mjøg hugsjúkur um, hvernig fara mundi. Þá kom madur hlaupandi, sem flúid hafdi úr bardaganum, og sagdi vid Elí: „Ísrael er flúinn fyrir Filisteum, og líka eru bádir synir þínir daudir, og Guds ørk er tekin". En er Elí heyrdi þetta, fèll hann aptur á bak af stólnum og hálsbrotnadi. Filistear tóku sáttmálsørkina, og settu hana í musteri skurdgods síns. Samt hèldu þeir henni ekki lengi; því um morguninn eptir sáu þeir, ad skurdgodid var dottid um koll og høfud-

id brotid af því. Þar hjá kom upp sótt mikil í bænum, og hvervetna þar sem farid var med ørkina. Þeir þordu því ekki ad halda henni, heldur sendu hana heim aptur.

### 3. Samúel.

Samúel spámadur var sídastur dómari. Hann áminnti lýdinn, svo hann snèri sèr frá afgudadýrkun og þjónadi Drottni. En Samúel fór á ári hverju um landid og dæmdi, og var mikils virtur af lýdnum. Unnu Ísraelsmenn nú sigur á Filisteum, og fridur var í landinu um daga Samúels. Þegar hann var ordinn gamall, bad lýdurinn hann ad setja sèr konung, og hann smurdi Sál til konungs yfir Ísrael. Samúel lagdi sídan nidur embætti sitt og sagdi til fólksins: „hèr em eg, vitnid nú á móti mèr fyrir Drottni og hans smurda: hefi eg tekid frá nokkrum manni hans uxa edur asna? hefi eg sýnt nokkrum manni ofríki eda órètt? eda hefi en þegid mútu og látid þannig blinda mín augu? Sè svo, skal eg skila því aptur". Þá svaradi fólkid: „eng-

an órètt og ekkert ofbeldi hefir þú haft í frammi við oss, og ekkert hefir þú af nokkurs manns hendi tekið". Síðan sagði Samúel: „Víkið að eins ekki frá Drottni, og þjónið Drottni með öllu yðar hjarta. Fjærri sè það mèr, að eg skyldi afláta að biðja fyrir yður, og eg vil kenna yður þann góða og rètta veg. En ef þèr breytið illa, svo verður bæði yður og yðar konungi í burtu kippt". Samúel lifði nokkurn tíma eptir þetta; en er hann dó, kom allur Ísrael saman og syrgði hann.

## 13.
## Sál.

### 1. Sál kemur til ríkis.

Sál var fyrstur konungur Ísraelsmanna; hann var ungur maður og fríður, og höfði hærri en allt fólkið. Í fyrstu þjónaði hann Drottni, og vann sigur á óvinum landsins, en síðar varð hann dramblátur, og hlýddi ekki boðum Drottins. Samúel var þá enn nú á lífi, og ávítaði hann harðlega fyrir óhlýðni

hans og sagdi vid hann: „Þú hefir burtsnarad Drottins ordi, svo mun Drottinn burtsnara þèr, ad þú sèrt ekki framar konungur yfir Ísrael. Drottinn hefir rifid frá þèr konungdóminn og gefid hann ødrum, sem er betri en þú“. Sídan fór Samúel, eptir bodi Drottins, til Betlehem, og smurdi Davíd, yngsta son Ísaís, til konungs eptir Sál. Eptir þad vard Sál opt þunglyndur og angradur í skapi. Davíd kunni vel á hljódfæri, og var því sóttur til hans; vard honum jafnan lèttara og betra, er Davíd lèk á hljódfæri, og vard honum mjøg vel til Davíds.

## 2. Davíd og Golíat.

Ísraelsmenn áttu nú í strídi vid Filistea. Med Filisteum var kappi nokkur, mjøg hár vexti, sem hèt Golíat. Hann gekk fram fyrir fylkinguna og kalladí til Ísraelsmanna: „veljid ydur mann, sem komi hingad til min; ef ad hann megnar ad berjast vid mig og fellir mig, svo viljum vèr vera ydar þrælar; en ef eg sigra hann og felli hann, svo skulud

þèr vera vorir þrælar". Þannig gekk hann fram í marga daga, en enginn þordi ad berjast vid hann. Þá kom Davíd heiman ad, því hann hafdi gætt sauda fødur síns, og baudst til ad berjast vid kappa þenna. Sál sagdi þá í fyrstu vid hann: „þú ert ekki fær um ad berjast vid hann, því þú ert ungmenni, en hann er strídsmadur frá sinni barnæsku". En er David sagdi honum frá, ad hann hefdi fellt ljón og bjørn, og ad líkt mundi Filistea þessum reida af, þá mælti Sál til hans: „far þú þá, Drottinn sè med þèr". Davíd hafdi staf einn í hendi og sløngu, og steina nokkra í tøsku sinni. En er Golíat sá, ad Davíd kom þannig á móti honum, forsmádi hann hann og sagdi: „er eg þá hundur, ad þú kemur á móti mèr med staf? kom þú til mín, svo eg gefi fuglum himins og dýrum merkurinnar þitt hold". En Davíd sagdi til hans: „þú kemur móti mèr med sverd og spjót, en eg kem á móti þèr í nafni Drottins allsherjar, og allur þessi safnadur skal taka eptir því,

ad Drottinn veitir sigur, hvorki med sverdi nè spjóti; því strídid er Drottins, og hann gefur ydur í vorar hendur". Sídan tók Davíd stein og slangradi, og hæfdi Golíat í ennid, svo hann fèll til jardar. Þá hljóp Davíd ad, dró sverd Golíats úr skeidum, og hjó af honum høfudid. En er Filistear sáu ad kappinn var daudur, flýdu þeir, en Ísraelsmenn eltu þá og løgdu ad velli.

### 3. Øfundsýki Sáls.

Upp frá þessum degi var vinátta mikil milli Davíds og Jónatans, sonar Sáls; en Jónatan var hetja mikil. Sál þar á móti leit øfundaraugum til Davíds. Því þegar þeir komu til baka úr strídinu, og konur gengu út á móti þeim, med søngum og hljódfæraslætti, þá var þetta vidkvædi þeirra: „Sál lagdi ad velli sína þúsund, en Davíd sín tíu þúsund". Þegar Sál heyrdi þetta, vard hann æfa reidur og sagdi: Davíd hafa þær gefid tíu þúsund, og mèr hafa þær gefid eitt þúsund, og hèr eptir fær hann konungsríkid í

vidbót“. Frá þeim degi var hann grunsamur og øfundsjúkur vid Davíd. Hann sat jafnvel um líf Davíds, og einn dag, er Davíd sat og lèk á hljódfæri fyrir honum, skaut Sál spjóti til hans: en hann hæfdi hann ekki, og Davíd skaut sèr undan.

### 4. Sál ofsækir Davíd.

Eptir þetta hlaut Davíd ad fara huldu høfdi um landid,en Sál ofsótti hann med strídsmønnum sínum. Margir menn komu þá til Davíds, og gengu í lid med honum. Samt leitadist Davíd aldrei vid ad gjøra Sál illt. Tvívegis átti Davíd rád á lífi hans; en er menn hans eggjudu hann á ad drepa Sál, þá sagdi hann: „Drottinn láti þad vera langt frá mèr, ad eg leggi mína hønd á hann, því Drottins smurdi er hann“. Í annad skiptid fór Sál inn í helli nokkurn, og vissi ekki af, ad Davíd var þar fyrir med mønnum sínum; hann lagdist þar til svefns, en Davíd gekk ad honum og skar lafid af skikkju hans. Sídan gekk hann út úr hellinum og kalladi eptir

Sál og mælti: „sjá, lafid af þinni yfirhøfn í minni hendi; því eg sneid það af, og deyddi þig ekki; þar af skaltu sjá, ad ekkert illt er í minni hendi, en þú sækist eptir mínu lífi, til ad ná því“. Sál komst þá vid og grèt, og sagdi: „Þú ert rèttvísari en eg, því þú hefir sýnt mèr gott, en eg hefi sýnt þèr illt. Svo umbuni Drottinn þèr gódu fyrir þenna dag, það sem þú gjørdir mèr“. Sál fór nú heim med mønnum sínum; en brádum fór hann á stað aptur, til ad ofsækja Davíd. Þá fór Davíd um nótt í herbúdir Sáls, og hafdi þadan spjót hans, gekk med það upp á fjallsbrún nokkra, sýndi það hinum ædsta hershøfdingja Sáls, og kalladi til hans: „því hefir þú ekki vakad yfir þínum herra, konunginum? Sjá nú til, hvar spjótid er“. Þá idradist Sál aptur breytni sinnar vid Davíd, og sagdi vid hann: „eg hefi syndgad, hverf nú aptur til baka, minn son Davíd, því eg skal nú ekki framar gjøra þèr mein“. En Davíd vissi, ad Sál var ekki ad treysta, og ad sèr mundi

aldrei verda óhætt fyrir honum, á medan hann væri í Ísraels landi. Hann fór því í land Filistea, og fèkk þar bæ einn til adseturs sèr og mønnum sínum.

### 5. Daudi Sáls.

Ári sídar drógu Filistear saman her sinn, og fóru á móti Ísraelsmønnum. Sál vard þá hræddur, og fór til spákonu nokkurrar, ad leita frètta, hvernig sèr mundi vegna í strídinu; en vid þad vard hann hræddari en ádur. Ísraelsmenn bidu ósigur í bardaga, og fèll þar Jónatan og tveir adrir synir Sáls, en sjálfur vard hann mjøg sár. Þá tók Sál sverd sitt, og lèt fallast á þad, svo hann dó. Þegar Filistear fundu lík Sáls, hjuggu þeir af honum høfudid, en festu líkid á borgarvegg einn. En innbúar annarrar borgar, sem Sál hafdi ádur frelsad úr óvina høndum, fóru á náttarþeli og tóku lík Sáls og sona hans, og jørdudu þau. Davíd kvad sorgarkvædi eptir hina føllnu, en einkum harmadi hann dauda Jónatans.

# 14.

# Davíð.

## 1. Davíð verður konungur.

Eptir dauða Sáls varð Davíð konungur; og Guð var með honum, svo hann vann sigur á øllum óvinum Ísraelsmanna, lagði undir sig mørg lønd, og varð voldugur og frægur konungur. Hann bjó í Jerúsalem, og byggði sèr høll á fjallinu Síon. Þar reisti hann tjaldbúð, og flutti þangað sáttmálsørkina með mikilli viðhøfn. Davíð vildi nú byggja musteri, í stað tjaldbúðarinnar; því honum þótti það ekki hlýða, að hann byggi sjálfur í skrautlegri høll, en Guðs ørk væri undir tjalddúkum. En Drottinn lèt Natan spámann segja Davíð, að hann skyldi ekki byggja honum hús, heldur mundi sonur Davíðs byggja það, og skyldi Guð efla ríki hans, svo það yrði staðfast til eilífðar. Davíð þakkaði Drottni af hjarta þetta fyrirheit, og alla þá náð, sem hann hafði sýnt honum; því Davíð var trúaður og guðhrædd-

ur í hjarta, eins og sèð verdur af hinum mørgu og føgru sálmum hans, sem eru í bifliunni.

### 2. Synd Davíðs og iðrun.

En Davíd var einnig syndugur madur og hann drýgdi stóra synd. Á medal strídsmanna hans var einn, sem hèt Úría. Á medan hann var í strídinu, fèkk Davíd ótilhlýdilega ást á konu hans Bersebu, og lèt sækja hana. Sídan gjørdi hann bod hershøfdingja sínum, ad hann skyldi setja Úría þar, sem hardastur væri bardaginn, svo hann yrdi drepinn af óvinunum. Úría fèll í bardaganum, og Davíd tók Bersebu sèr fyrir konu.

Eptir ad Davíd hafdi drýgt þessa synd, kom Natan spámadur til hans og sagdi: „tveir menn voru í sømu borg; annar var ríkur, en hinn fátækur. Sá ríki átti fjølda bædi sauda og nauta, en sá fátæki átti alls ekki nema lamb, sem hann hafdi keypt; þad át af hans mat og drakk af hans bikar, og vid hans brjóst svaf þad. Þá kom ferdamad-

ur til hins ríka, og hann tímdi ekki að taka neinn af sínum sauðum eða af sínum nautum til matreiðslu fyrir ferðamanninn, og tók lamb fátæka mannsins, og matbjó það fyrir manninn, sem kominn var til hans". Þegar Davíð heyrði þetta, varð hann reiður og sagði: „sá maður, sem slíkt hefir að hafzt, er dauða sekur". En Natan sagði við Davíð: „þú ert maðurinn. Því hefir þú forsmáð orð Drottins, með því að að hafast það, sem honum mislíkar. Úría hefir þú fellt með sverði, og tekið hans konu þèr fyrir konu". Þá játaði Davíð synd sína og iðraðist hennar af hjarta, og bað til Guðs, eins og lesa má í einum sálmi hans: „afmá mínar yfirtroðslur, eptir þinni miklu miskunsemi, því eg þekki mína yfirtroðslu, og mín synd er ætíð frammi fyrir mèr. Byrg þitt auglit fyrir mínum syndum. Skapa í mèr hreint hjarta, ó Guð, og endurnýja í mèr stöðugan anda. Tak ekki þinn heilaga anda frá mèr; gef mèr aptur fögnuð þíns frelsis". Drottinn heyrði einnig bæn Davíðs, og lèt

Natan spámann hugga hann og segja: „svo hefir þá Drottinn burt tekið þína synd, þú munt ekki deyja“. En Davíð hlaut opt að líða mikla sorg og mæðu, sakir misgjørðar sinnar.

### 3. Uppreisn Absalons.

Davíð átti son einn, sem hèt Absalon. Hann var fríður sýnum, en illur í hjarta. Hann rèðist í, að steypa føður sínum úr vøldum, og fèkk í fylgi með sèr hinn illa og slæga Akitófel og marga af lýðnum; síðan lèt hann gefa sèr konungsnafn. Davíð var þá orðinn gamall, og hlaut að flýja frá Jerúsalem fyrir syni sínum. Gekk hann þá berfættur upp á Olíufjallið, og margir af lýðnum, sem hèldu trúnað við hann, fylgdust með honum sorgbitnir. Þá kom einn ættingi Sáls, sem hèt Símei, og formælti honum og hæddi hann. Einn af liðsmønnum Davíðs vildi drepa hann, en Davíð sagði: „látið hann formæla, því Drottinn hefir boðið honum það. Skè má að Drottinn líti á mína eymd, og bæti mèr þessa hans formæling í dag með

góðu". Absalon fór nú inn í Jerúsalem, og Akitófel rèði honum til að láta þegar veita Davíð eptirfør; en Absalon hlýddi ekki ráðum hans. Fór Akitófel þá og hengdi sig. Davíð fèkk nú ráðrúm til að safna sèr liði. Sendi hann nú menn sína á móti Absalon, en bauð þeim að vægja Absaloni. En þeir gjørðu það ekki, því þegar Absalon var rekinn á flótta, og varð fastur á hárinu í eik einni, er hann reið um skóglendi, þá kom einn af hershøfðingjum Davíðs að, og lagði hann með spjóti. Nú flutti lýðurinn hinn aldraða konung með føgnuði aptur til Jerúsalem. En Davíð grèt yfir dauða Absalons og sagði: „minn sonur Absalon! æ að eg hefði dáið í þinn stað, sonur minn! sonur minn!"

### 4. Dauði Davíðs.

Áður en Davíð andaðist, lèt hann smyrja son sinn Salómon til konungs eptir sig, og kallaði hann til sín og sagði við hann: „Þekktu Guð føður þíns, og þjóna þú honum með einlægu hjarta og með viljugri sálu;

því Drottinn rannsakar øll hjørtu og þekkir allar hugsananna smíðar. Ef þú leitar hans, svo lætur hann þig finna sig; en ef þú yfirgefur hann, svo mun hann útskúfa þèr algjørlega. Vertu óhræddur og ódeigur, því Guð Drottinn, minn Guð, er með þèr". Skømmu síðar andaðist Davíð, 70 ára gamall; hafði hann verið konungur Ísraelsmanna í 40 ár.

## 15.
## Salómon.
### 1. Speki Salómons.

Salómon tók við miklu og voldugu ríki eptir Davíð føður sinn, og var Salómon þá á unga aldri. Þá birtist Drottinn honum í draumi og sagði við hann: „bið þú einhvers, hvað skal eg gefa þèr?" Salómon bað þá um vísdóm, til að stjórna fólki sínu, en Guð sagði við hann: „sjá, svo veiti eg þèr það, sem þú baðst um; eg gef þer hyggið og skilningsfullt hjarta, svo þinn líki hefir ekki verið

fyrir þig, og þinn líki skal ekki koma eptir þig. Og líka gef eg þèr það, sem þú baðst ekki um, bæði auðlegð og heiður. Og ef þú gengur á mínum vegum, svo að þú gefur gaum mínum setningum og boðorðum, svo skal eg lengja þína daga". Salómon varð svo frægur af speki sinni, að menn komu úr øðrum løndum til að heyra hann. Jafnvel drottning nokkur kom úr fjarlægu landi og dáðist mjøg að þeirri speki, sem hún heyrði, og allri þeirri viðhøfn, sem hún sá.

Speki Salómons lýsti sèr fyrst í dómi einum, sem hann dæmdi. Konur tvær bjuggu saman og áttu sitt barnið hvor; ønnur þeirra misti barn sitt, en tók barn hinnar og sagðist eiga það. Þær komu nú fyrir konung með barnið, sem lifði, til þess hann legði dóm á, hvor það skyldi eiga. Konungur mælti: „færið mèr sverð". En er honum var fært sverðið, sagði hann: „høggvið það barnið, sem lifir, í tvo hluti, og fáið sinn helminginn hvorri". Þá sagði ønnur konan: „æ, minn herra!

gefid henni barnid, sem lifir, en deydid þad ekki". Þá fann konungur ad hún hafdi ást á barninu og var módir þess, og hann fèkk henni þad aptur. Hina miklu speki Salómons má sjá af bókum þeim, sem hann hefir ritad. Þær bækur finnast í biflíunni og eru: Ordskvidirnir, Prèdikarinn og Lofkvædid.

## 2. Salómon byggir musterid.

Salómon naut jafnan fridar í stjórn sinni. Hann var vinur konungsins í Týrus, og byggdu þeir skip mørg saman, og sendu í kaupferdir til annarra landa. Af þessu vard Salómon audugur, og vardi hann aud sínum til skrautlegra bygginga. Af þeim er musterid frægast, sem hann byggdi á fjallinu Moría í Jerúsalem. Þad var byggt í stad tjaldbúdarinnar, og var því skipt, eins og henni, í tvo hluti: hid heilaga og hid allrahelgasta, og forgardur var umhverfis þad. Salómon var í 7 ár ad byggja musterid, og gjørdi þad mjøg skrautlegt og dýrmætt. Þegar byggingunni var lokid, var sáttmálsørkin

flutt þangad med mikilli vidhøfn, og kom þá mikill fjøldi fólks saman. Þá gekk Salómon fyrir altarid, hóf upp hendur sínar til himins og mælti: „Drottinn Ísraels Gud! enginn Gud er sem þú, á himninum yfir, eda jørdunni undir. Himininn og allir himnanna himnar taka þig ekki, miklu midur þad hús, sem eg hefi þèr byggt. Þín augu sèu opin yfir þessu húsi dag og nótt, ad þú heyrir þá bæn, sem þinn þjón mun bidja á þessum stad". Salómon bad sídan fyrir Ísraelsmønnum, en einnig fyrir hinum framandi úr fjarlægum løndum, ad allar þjódir á jørdunni mættu kannast vid Drottins nafn og óttast hann. Þá uppfyllti Drottins dýrd húsid, en fólkid hneigdi sig til jardar og þakkadi Drottni, ad hann væri gódgjarn og hans nád eilíf.

### 3. Hinir sídustu dagar Salómons.

Hjarta Salómons var ekki stødugt hjá Drottni. Þegar hann vard gamall, lèt hann hinar heidnu konur sínar tæla sig til afgudadýrkunar. Þá reiddist Drottinn Salómoni og

bodadi honum, ad ríki hans skyldi sundrast, og sonur hans ekki halda nema nokkrum hluta þess. Fólkid vard einnig óánægt, því Salómon lagdi á þad þunga skatta, svo uppreisn vard á ýmsum stødum í ríkinu.

## 16.
## Skipting ríkisins.

Þegar Salómon var dáinn, fór lýdurinn til Róbóams, sonar hans, og sagdi vid hann: „fadir þinn hefir gjørt ok vort þungt, en gjør þú nú lèttari þá hørdu vinnu og þad þunga ok, sem hann á oss lagdi; svo viljum vèr þjóna þèr". Róbóam rádgadist fyrst vid gamla og reynda menn, sem høfdu verid rádgjafar fødur hans. Þeir rèdu honum til ad vera eptirlátur vid fólkid, og heita því gódu. Róbóam gedjadist ekki þetta rád; hann rádfærdi sig því vid unga menn, sem høfdu alizt upp med honum. Þeir rèdu honum til ad svara med drambi og hørku. Hann fèllst á þad, og sagdi til fólksins: „fadir minn hefir lagt á

ydur þungt ok, en eg vil enn nú bæta á ydar ok; fadir minn refsadi ydur med svipum, en eg mun refsa ydur med skorpiónum". En Róbóam hefndist fyrir þessa fávizku; því tíu ættkvíslum gramdist svo þetta svar hans, ad þær kusu sèr annan konung, sem het Jeróbóam, en Róbóam hèlt ekki nema Júda og Benjamíns ættkvíslum.

Þannig skiptist Ísraelslýdur í tvø ríki. Þær tvær ættkvíslir, sem Róbóam stýrdi, voru kalladar Júdaríki, og var Jerúsalem þar høfudborg. Hinar tíu ættkvíslirnar, sem Jeróbóam vard konungur yfir, voru kalladar Ísraelsríki, en høfudborgin var Samaría. Þessi tvø ríki áttu opt í strídum hvort vid annad; veiktust þau svo vid þad, ad framandi þjódum vard hægra fyrir ad undiroka þau.

## 17.

## Israels ríki.

### 1. Jeróbóam.

Jeróbóam var hræddur um, ad ef

þegnar hans hèldu áfram að fara til Jerú-salem og færa þar fórnir, þá mundu þeir aptur sameinast hinum tveimur ættkvíslum og taka Róbóam fyrir konung. Hann setti því upp tvo gullkálfa, sinn á hvorum enda landsins, og sagði við fólkið: „nógu lengi hafið þèr farið til Jerúsalem; sjá, Ísrael! þar er þinn Guð, sá sem leiddi þig burt úr Egyptalandi“. Hann færði sjálfur fórnir þessum skurðgoðum, og tók presta, sem ekki voru af Levís ætt, og skipaði hátíðir eptir eigin vild.

Jeróbóam átti son, sem varð konungur eptir hann; en hann sat stutta stund að ríkj-um, því hann var drepinn í uppreisn og øll ætt hans afmáð. Eptir hann voru konung-ar af ýmsum ættum, hver øðrum verri, og voru þeir skurðgoðadýrkendur.

### 2. Akab og spámaðurinn Elías.

Akab var verstur allra Ísraelskonunga. Hann átti illa drottningu, sem hèt Jessabel, og var af heiðnum ættum, frá borginni Sídon. Í þeirri borg dýrkuðu menn skurðgoð

eitt, sem hèt Baal. Jessabel fèkk því rádid, ad Akab reisti Baal musteri í Samaríu; en spámenn Drottins voru ofsóttir og margir þeirra teknir af lífi.

Á þeim tíma lèt Gud koma spámann mikinn, sem hèt Elías. Hann bodadi Akab, ad til hegningar fyrir gudleysi hans, skyldi í langan tíma ekki koma regn í landinu. Sídan fór Elías burtu, og þad rættist, sem hann hafdi sagt: í þrjú ár kom ekkert regn, og mikid hallæri vard í landinu. Þá kom Elías aptur, og gekk til móts vid Akab. En er Akab sá Elías, mælti hann: „ertú sá sem leidir ólukku yfir Ísrael?“ En Elías svaradi: „ekki hefi eg leitt ólukku yfir Ísrael, heldur þú og þíns fødurs hús, þegar þèr yfirgáfud bodord Drottins og eltud afgudi“. Hann fèkk nú Akab til ad safna saman Baals prestum og lýdnum hjá fjallinu Karmel. En er þeir voru saman komnir, baud Elías Baals prestum ad taka naut og brytja þad,

leggja á vidinn, en leggja engan eld ad; annad naut vildi hann brytja sjálfur og fara eins ad; skyldu þeir sídan ákalla Baals nafn, en Elías nafn Drottins. Sá Gud, sem svaradi med eldi, er kveikti í fórninni, hann skyldi vera Gud fólksins. Þetta gedjadist fólkinu vel, og báru Baals prestar fyrri fram fórn sína. En þeir kølludu forgefins á Baal frá morgni og fram til middegis. Þá sagdi Elías vid þá: „kallid hátt, hann er í þønkum, eda hefir einhvers ad gæta, eda hann er á ferd, eda hann er sofnadur“. En hversu hátt sem þeir kølludu, kom þad fyrir alls ekkert. Þá bar Elías fram fórn sína og badst fyrir: „Drottinn Gud Abrahams, Ísaaks og Ísraels, í dag verdi opinbert, ad þú ert Gud í Ísrael og eg þinn þjón“. Þá kom eldur af himni og eyddi brennifórninni. En er fólkid sá þad, féll þad fram á andlit sín og sagdi: „Drottinn, hann er Gud, Drottinn, hann er Gud“. Sídan sagdi Elías vid Akab: „spenn fyrir vagninn og far af stad, svo regnid nái

þèr ekki". Á sømu stundu vard himininn dimmur og þar kom mikid regn.

En Akab og Jessabel snèru sèr samt ekki frá gudleysi sínu. Saklausan mann, sem hèt Nabot, lètu þau jafnvel dæma eptir ljúgvottum og grýta í hel, til þess ad eignast víngard hans, sem Akab ágirntist. En er þau høfdu framid illvirki þetta, þá gekk Elías fyrir Akab og sagdi: „vegna þess ad hundar sleiktu Nabots blód, skulu og svo hundar sleikja þitt blód. Hundar skulu eta Jessabel". Spádómur þessi rættist. Akab fèll í bardaga, og er blódid var þvegid af strídsvagni hans, þá sleiktu hundar þad. Jessabel lifdi eptir þad í nokkur ár; en er hershøfdingi nokkur, sem ordinn var konungur, hèlt innreid sína í Samaríu, lèt hann kasta Jessabel út um glugga; hestar tródu hana undir fótum, og hundar átu lík hennar.

Elías átti lærisvein, sem hèt Elísa; hann var einnig spámadur mikill. Einu sinni er þeir gengu saman, kom eldlegur vagn med

eldlegum hestum fyrir; á honum fór Elías upp til himins í stormvidri miklu, og Elísa sá hann ekki framar.

### 3. Jónas spámadur.

Drottinn upp vakti fleiri spámenn í Ísraelsríki, en konungarnir og fólkid hèldu áfram gudleysi sínu og hirtu ekki um advaranir spámannanna. Einn af spámønnum þessum hèt Jónas; hann flutti ord Drottins, ekki einungis Ísraelsmønnum, heldur einnig heidingjum. Því Drottinn baud honum einu sinni ad fara til Ninive, sem var høfudborg Assyríuríkis, og kunngjøra ad Drottinn mundi eydileggja hana, vegna gudleysis borgarmanna. Jónas var tregur til ad fara ferd þessa, og flúdi burtu á skipi nokkru. Þá lèt Gud koma storm mikinn, og skipverjar køstudu Jónasi útbyrdis. En stórfiskur nokkur gleypti hann, en spjó honum eptir 3 daga á þurt land. Sídan fór Jónas, eptir bodi Drottins, til Ninive og bodadi, ad innan 40 daga skyldi borgin verda eydiløgd. Þá idrad-

ist konungurinn og fólkid synda sinna, og snèru sèr til Guds; en hann þirmdi borginni.

### 4. Eydilegging Israels ríkis.

Hundrad árum sídar var konungur í Ninive sem hèt Salmanassar. Hann fór med her sinn til Samaríu, og tók borgina og allt ríkid, en slutti konunginn, sem hèt Hóseas, og allt fólkid til Assyríu. Ísraelsríki hafdi stadid nærfelt í 250 ár, en fórst þannig vegna gudleysis þess, sem þar hafdi verid frá því á døgum Jeróbóams.

## 18.

## Júda ríki.

### 1. Róbóam.

Róbóam eignadist mjøg litinn hluta af hinu volduga ríki fødur síns, og er hann hafdi setid ad vøldum fáein ár, kom Egyptalands konungur med mikinn her og rænti musterid og konungshøllina. Róbóam óttadist ekki Gud, og margir af fólkinu dýrkudu skurdgod. Samt var skurdgodadýrkun aldrei eins mikil í Júda ríki og í Ísraels ríki; Davíds ætt

sat allt af ad vøldum í Júda ríki, og sumir af konungunum voru gódir og gudhræddir.

## 2. Esekías og spámadurinn Esaías.

Esekías var beztur af konungum Júdaríkis. Hann sat ad vøldum, þegar Salmanasar, Assyríu konungur, eydilagdi Ísraels ríki. Esekias hélt sèr til Drottins, og afmádi skurdgodadýrkun í landi sínu. Þess vegna var Drottinn med honum, og frelsadi hann og ríki hans úr mikilli hættu. Senakerib konungur, sonur Salmanassars, kom til Jerúsalem med ógrynni lids og sagdi med miklu drambi, ad enginn Gud hefdi hingad til frelsad lønd frá Assyríu konungi, og því mundi Gud ekki heldur frelsa Jerúsalem úr høndum hans. En Esekías treysti Drottni, og bad hann hjálpar. Drottinn lèt þá spámanninn Esaías segja honum, ad hann hefdi bænheyrt hann, og á sømu nóttu lèt hann engil slá í hel í herbúdum Assyríu manna 185 þúsundir manns; en Senakerib vard vid svo búid ad hverfa heim aptur til Ninive.

Esaias spámadur flutti og marga adra spádóma. Hann sagdi Esekías konungi, ad øll audlegd hans mundi einu sinni verda flutt til Babýlonar, og nokkrir af nidjum hans verda herbergjasveinar í høll konungsins í Babýlon. Hann sagdi einnig fyrir, ad Drottinn mundi aptur líkna fólki sínu, og spádi mørgu fagurlega um frelsarann, sem koma ætti í heiminn.

### 3. Manasse.

Manasse, sonur Esekías, var mjøg gudlaus. Hann reisti upp skurdgod í musterinu, og fórnfærdi þeim jafnvel børnum sínum. Þess vegna hegndi Drottinn honum, og lèt Assyríu konung sigrast á honum, og færa hann fanginn til Babýlonar. Þar idradist Manasse, og Gud lèt hann komast aptur til ríkis síns.

### 4. Eydilegging Júda ríkis.

Á døgum Manasses lá Babýlon undir Assyríu ríki; en seinna voru þar konungar út af fyrir sig, og vard ríkid mjøg voldugt.

Júda ríki hafdi nú stadid nær því í 400 ár; en þá kom Nebúkadnesar, konungur í Babýlon, og tók borgina Jerúsalem, eydilagdi hana, en brenndi upp musterid. Hinn sídasti konungur í Júda ríki, sem hèt Sedekías, var ásamt fólkinu fluttur burtu til Babýlonar.

Á þeim tímum lifdi spámadurinn Jeremías. Hann hafdi sagt allt þetta fyrir, en einnig, ad eptir 70 ár mundi Drottinn leida fólk sitt heim aptur.

## 19.

## Útlegdin í Babýlon.

### 1. Sorg og huggun hinna herleiddu.

Drottinn hafdi hegnt fólki sínu þunglega fyrir gudleysi þess: þad hlaut lengi ad lifa fjærri fødurlandi sínu, á medal heidingja, og minnast med trega á musterid og hina føgru høfudborg, sem løgd var í eydi. Frá þeim tímum er sorgarsøngur sá, sem finnst í Davíds 137. sálmi:

„Í Babýlon við vøtnin strøng
vèr sátum fullir sorgar;
oss var hver stundin leið og løng,
langaði til Síons borgar".

En Drottinn huggaði hina herleiddu í raunum þeirra. Hann uppvakti á meðal þeirra tvo mikla spámenn, Esekíel og Daníel, sem boðuðu þeim ekki einungis frelsið úr herleiðingunni, heldur einnig annað miklu meira frelsi.

## 2. Daníel leggur út draum Nebúkadnesars.

Daníel spámaður var mjøg virtur af landsmønnum sínum, en hann komst einnig í mikið álit hjá Nebúkadnesar konungi. Konunginn dreymdi draum, sem hann gat ekki gløggt munað. En Daníel sagði honum bæði hvað hann hefði dreymt, og einnig þýðingu draumsins. Konunginn hafði dreymt, að hann sæi líkneski eitt mikið; var høfuð þess af gulli, brjóst og handleggir af silfri, kviður og lendar af eiri, leggirnir af járni, en fæturnir sumt af járni, sumt af leir. Hann hafði einnig

dreymt, að steinn nokkur losnaði, án þess nokkur kæmi við hann; lenti steinninn á líkneskinu og braut það, en varð síðan að stóru fjalli, sem tók yfir alla jørðina. Daníel þýddi svo draum þenna, að koma mundu fjøgur mikil ríki, hvert eptir annað, en steinninn, sem braut líkneskið, mundi tákna ríki, sem Guð sjálfur mundi hefja; það mundi gjøra að engu øll hin ønnur ríkin, en sjálft standa að eilífu. Þegar Nebúkaðnesar heyrði þetta, sagði hann við Daníel: „í sannleika er yðar Guð yfirguð guðanna, og opinberari leyndra hluta, með því þú máttir þenna leyndardóm auglýsa“. Eptir það gjørði hann Daníel að einum hinum mesta høfðingja í ríkinu.

### 3. Vinir Daníels í eldsofninum.

Nebúkaðnesar hèlt samt sem áður áfram að dýrka skurðgoð. Hann lèt gjøra líkneski mikið, og bauð að allir skyldu falla fram og tilbiðja það. Þá voru þar þrír menn, sem voru landsmenn og vinir Daníels; þeir voru ákærðir fyrir konungi, að þeir vildu ekki tilbiðja

líkneskið. Nebúkadnesar lèt kalla þá fyrir sig og hótaði þeim, að ef þeir tilbæðu ekki líkneskið, skyldi þeim verða kastað í eldsofn brennandi, og sagði við þá: „hver er sá Guð, er yður megi frelsa úr mínum höndum?“ En þeir svöruðu honum: „vor Guð, sem vèr dýrkum, getur frelsað oss, og þó hann gjöri það ekki, þá skaltu samt vita, að vèr munum ekki dýrka þína guði“. Þá lèt konungur kasta þeim í eldsofninn; en Guð sendi engil sinn til þeirra, og þeir gengu heilir á hófi út úr ofninum. Þá kunngjörði konungur, að þeirra Guð væri hinn sanni Guð, því enginn gæti frelsað eins og hann.

### 4. Daníel í ljónagröfinni.

Daníel var í miklum metum í Babýlon, og svo eptir dauða Nebúkadnesars. En hann átti einnig öfundarmenn marga. Þeir komu einum konunganna til að kasta Daníel í ljónagröf, eins og vant var að gjöra við óbótamenn. En Drottinn var með Daníel, svo

ljónin gjørðu honum ekki mein, og konungur lèt draga hann upp úr grøfinni.

### 5. Sýrus Persa konungur tekur Babýlon.

Á meðan Daníel var enn nú á lífi, lagði einn Persa konungur Babýlon undir sig; sá konungur hèt Sýrus. Þetta skeði á nátt=arþeli, er konungur í Babýlon bjóst ekki við neinni hættu, og hèlt veizlu mikla. Hann hafði látið sækja gullker og silfurker þau, sem Nebúkaðnesar hafði tekið í musterinu í Jerú=salem; drakk hann af þeim með mønnum sín=um, og vegsømuðu þeir skurðgoðin. Allt í einu varð konungur skelkaður, því hann sá mannshønd rita á vegginn orð nokkur, sem enginn gat lesið. Var Daníel nú sóttur og þýddi hann letrið þannig: „Guð hefir talið þín ríkisár. Þú ert veginn og lèttvægur fundinn; þitt ríki er deilt og gefið Persum“. Á sømu nóttu tók Sýrus borgina.

## 20.
## Heimförin frá Babýlon.

Þegar Sýrus var kominn til ríkis í Babýlon, leyfdi hann Ísraelsmönnum, sem upp frá því voru kalladir Gydingar, ad fara heim í land sitt; höfdu þeir þá verid í útlegd í 70 ár. Fóru margir af þeim þegar heim, og fèkk Sýrus þeim gullskálar og silfurskálar þær, sem Nebúkadnesar hafdi tekid úr musterinu í Jerúsalem.

Þegar Gydingar voru komnir heim, tóku þeir til ad byggja nýtt musteri. En Samaríumenn leitudst vid ad tálma starfi þeirra. Þeir voru þjód sú, sem bjó í landinu umhverfis Samaríu. Þangad hafdi Salmanassar sent heidingja nokkra, er hann tók Ísraels ríki, en flutt burtu innbyggendur landsins. Heidingjar þessir höfdu tekid nokkud af trú Gydinga og blandad saman vid heidni sína; vildu þeir nú byggja musterid ásamt Gydingum. En Gydingar neitudu því; því nú höfdu þeir fengid vidbjód á allri heidni.

Urdu Samaríumenn þeim nú óvinveittir, og leituduſt vid ad hindra bygginguna, og gátu þeir tafid hana í nokkur ár. En þá kom upp ſpámadur einn á medal Gydinga, ſem hèt Haggaí; hann hvatti þá til ad halda áfram byggingunni, og vard henni þá lokid. En muſteri þetta var ekki eins ſkrautlegt og þad, ſem Salómon hafdi byggt, og gamlir menn, ſem høfdu ſèd hid eldra muſterid, angruduſt af því. En Haggaí ſpámadur huggadi þá med því, ad dýrd hins ſeinna muſterisins ſkyldi verda meiri en hins fyrra, og ſpádi þannig, ad í þetta muſteri mundi ſá koma, ſem þeir þrádu eptir.

Eptir þetta komu enn fleiri Gydingar heim frá Babýlon, og voru þeir Esra og Nehemías helztir þeirra, og efldu med kappi og hyggindum velferd þjódarinnar.

## 21.
## Gyðingar undir Egypzkum og Sýrlenzkum.

Eptir að Gyðingar voru komnir heim frá Babýlon, stóðu þeir enn nú í 200 ár undir Persa konungum. En þá var allt Persíu ríki, ásamt mørgum løndum í Suður- og Austurálfum heimsins, tekið af konungi nokkrum, sem kom frá Grikklandi í Norðurálfu; hann hèt Alexander hinn mikli. En Alexander hinn mikli varð skammlífur, og er hann var dáinn, skiptu hershøfðingjar hans með sèr hinu mikla ríki hans. Einn þeirra stofnaði ríki á Egyptalandi, annar á Sýrlandi. Konungarnir í þessum tveimur ríkjum áttu opt í stríðum hvor við annan, og rèðu ýmsir þeirra fyrir Gyðingalandi, því það var mitt á milli þeirra.

Að lyktum urðu Sýrlands konungar yfirsterkari í Gyðingalandi. Einn þeirra, sem hèt Antíokus, vildi neyða Gyðinga til að ganga af trú sinni og dýrka skurðgoð. Hann lèt grimmilega misþirma mørgum og drepa

suma, þegar þeir hèldu stødugt við trú sína. Á meðal þeirra var aldraður maður, sem hèt Eleasar. Honum var ráðlagt að láta eins og hann lèti undan, til að forða lífi sínu; en hann svaraði: „Þó eg komist nú hjá manna hegningu, get eg samt ei umflúið hendur þess almáttuga. Því vil eg láta lífið með karlmennsku og eptir láta þeim yngri gøfuglegt dæmi“. Þar var og kona ein með sjø sonum sínum, og þoldu þau øll kvalafullan dauða með miklu støðuglyndi, og hugguðust við það, að Guð mundi aptur vekja þau til eilífs lífs.

## 22.

## Makkabearnir.

Þegar Antíokus konungur fór þannig grimmdarlega með Gyðinga, var á meðal þeirra prestur nokkur, sem hèt Mattatías. Honum gekk mjøg til hjarta eymð fólksins. Einn af sendimønnum konungs, sem átti að þrøngva fólkinu til skurðgoðadýrkunar, kom þang-

ad sem Mattatías var, og sagdi vid hann: „þú ert høfdingi, virtur og voldugur á þessum stad; kom þú fyrstur fram og hlýd bodi konungsins; þá munt þú og ætt þín komast í vináttu vid konunginn, og þú og synir þínir munu sæmdir verda med silfri og gulli og mørgum gáfum“. En hann svaradi: „þó ad allar þjódir í húsi konungsins ríkis hlýdi honum, þá skal eg samt og synir mínir og ættingjar halda vid sáttmála fedra vorra“. Þegar nú Gydingur nokkur gekk fram ad færa skurdgodunum fórn, vard Mattatías svo reidur, ad hann drap bædi Gydinginn og sendiboda konungs, og reif altarid nidur. Eptir þad flúdi hann og synir hans til fjalla, og flykktust þá ad þeim margir landsmenn þeirra, og safnadist þeim þannig herlid nokkud. Þeir fóru nú á móti Sýrlenzkum og unnu sigur, og støkktu þeim ad lyktum úr landinu. Einn af sonum Mattatíasar hèt Júdas Makkabeus; hann var afbragds

hraustur strídsmadur, og var øll ættin kennd vid hann, og kølluð Makkabear.

Makkabear rèdu fyrir Gydingalandi nærfellt í 100 ár; en ad þeim lidnum komu Rómverjar og løgdu landid undir sig.

## 23.

## Gydingar undir Rómverjum.

Rómverjar voru þjód ein, sem átti heima í Rómaborg í landinu Ítalíu. En þeir høfdu smámsaman lagt undir sig mørg lønd bædi í Nordur- Sudur- og Austurálfu, svo ad ríki Rómverja vard hid voldugasta í øllum heimi. Einn af hershøfdingjum Rómverja var staddur í Austurálfunni, þegar brædur tveir af ætt Makkabeanna deildu um vøldin, og baudst hann til ad leida til lykta mál þeirra. En hann gjørdi þad á þá leid, ad Gydingar voru þar eptir undirgefnir Rómverjum.

Nokkrum árum sídar setti Ágústus, keisari Rómverja, konung yfir Gydingaland.

Konungur sá hèt Heródes, og var kominn af þjóð Edómíta edur Idúmea, sem átti kyn sitt að rekja til Esaus. Á meðan Heródes rèði fyrir Gyðingum, eins og undirkonungur Rómverja, uppfyllti Drottinn hið mikla loforð sitt, og sendi heiminum frelsara þann, sem allir þurftu og margir þráðu eptir.

## 24.

## Bækur gamla testamentisins.

Sá hluti ritningarinnar, sem er ritaður af helgum mønnum á meðal Gyðinga, kallast gamla testamentið. Bækur gamla testamentisins eru þessar:

Fimm bækur Móses. Í fyrstu bókinni er sagan frá skøpun heimsins þangað til Jósep dó; í hinum fjórum bókunum er saga Ísraelsmanna, frá því er Móses fæddist og þangað til hann dó.

Jósúa bók er sagan um Jósúa; Dómara bókin saga dómaranna allt að Elí.

Ruts bók hefir inni ad halda søguna um Rut, og er hún þannig:

Á døgum dómaranna var einu sinni hallæri mikid í Kanaanslandi. Þá fór madur nokkur frá Betlehem med konu sinni, sem hèt Noomi, og tveimur sonum sínum, og tók sèr bústad í Móabs landi. Skømmu sídar dó madur Noomis, en synir hennar tóku sèr móabitiskar konur; hèt ønnur Orpa, en hin Rut. Ad tíu árum lidnum dóu bádir synir Noomis. Lagdi hún þá af stad heim aptur til Betlehem, og voru bádar tengdadætur hennar í før med henni. Orpa fór aptur heim í land sitt, en Rut vildi ekki yfirgefa Noomi. Hún sagdi: „Þreng þú ekki ad mèr ad yfirgefa þig; hvert sem þú fer, þangad fer eg; þitt fólk er mitt fólk og þinn Gud er minn Gud; hvar sem þú deyr þar dey eg". Þær urdu samferda til Betlehem, og komu þangad í byrjun uppskerutímans. Rut gekk nú á akur ad tína ax; en þann akur átti Bóas, sem var frændi manns hennar. Þegar Bóas sá hana og frètti

hver hún var, leyfdi hann henni ad tína ax á akrinum, þar sem fólk hans vann ad uppskerunni, og baud ad enginn skyldi gjøra á hluta hennar. Þegar Rut beygdi sig til jardar fyrir honum, og spurdi hvers vegna hann sýndi henni þessa góðvild, þar sem hún þó væri útlend, þá svaradi Bóas: „allt hefi eg frètt, sem þú hefir gjørt vid þína tengdamódur, ad þú yfirgafst fødur þinn og módur þína, og fórst til þess fólks, sem þú ekki þekktir ádur. Drottinn umbuni þitt verk, ad þín laun verdi fullkomin af Drottni, Ísraels Gudi, undir hvers vængi þú ert komin ad leita hælis". Þegar lokid var uppskerunni, tók Bóas Rut sèr fyrir konu. Þau áttu son saman, sem hèt Obed; hann var fadir Ísais, fødur Davíds.

Tvær bækur Samúels segja frá søgu Elís, Samúels, Sáls og Davíds. Tvær bækur konunganna hafa inni ad halda søgu tímanna þar á eptir og ad herleidingunni til Babýlonar.

Í tveimur Kroniku bókum eru fyrst nokkrar ættartølur, en þar á eptir sagan frá Davíd og ad herleidingunni til Babýlonar.

Esræ bók og Nehemia bók segja frá heimførinni frá Babýlon.

Esters bók segir frá konu nokkurri af Gydinga ættum, sem einn af Persa konungum tók sèr fyrir drottningu.

Á eptir henni kemur Jobs bók. Þad er sagan um Job, sem var mjøg þolinmódur madur, og er hún ritud til ad kenna oss, ad vèr eigum jafnan ad vera ánægdir med stjórnun Guds, bædi í medlæti og mótlæti. Saga þessi er þannig:

Job var gudhræddur madur. Hann var audugur mjøg, og átti sjø sonu og þrjár dætur. En allt í einu lèt Gud koma yfir hann mikid mótlæti. Ræningjar komu og høfdu burtu naut hans og úlfalda, en drápu sveina hans. Eldur kom af himni og drap fè hans og hirdara. Stormur kom og lenti á húsinu, þar sem børn hans voru inni, og fórust þau

øll. Job bar þetta allt með þolinmæði og sagði: „nakinn kom eg af móðurlífi, nakinn mun eg aptur hèðan fara. Drottinn gaf, Drottinn tók, lofað veri Drottins nafn“. En Drottinn reyndi Job enn meir, og lèt hann verða hlaðinn kýlum um allan líkamann. Þá sagði kona hans við hann: „ertu enn nú staðfastur í þinni guðrækni? segðu nú skilið við Guð og farðu að deyja“. En Job svaraði: „þú talar sem fávísar konur tala. Fyrst vèr höfum meðtekið af Guði hið góða, skulum vèr þá ekki og meðtaka hið vonda?“ Nú komu þrír vinir Jobs að hugga hann; en þeir töluðu við hann óvingjarnlega og hèldu, að raunir hans væru hegning fyrir eitthvert illverk, sem hann hefði framið. Job tók þá að stæra sig af góðverkum sínum og mögla á móti Guði. En þá talaði Guð til hans og ávítaði hann fyrir þetta; en Job auðmýkti sig þá fyrir honum. Þá blessaði Guð Job og jók til helminga auðlegð hans, og hann eignaðist aptur sjö sonu og þrjár dætur.

Hann lifdi í mørg ár eptir það, og var lángefinn madur.

Á eptir Jobs bók koma Sálmarnir. Það eru andlegir søngvar, og hefir Davíd ort flesta þeirra. Sídan koma rit Salómons: Ordskvidirnir, Prèdikarinn og Lofkvædid.

Rit spámannanna inni halda marga spádóma, en einnig margar kenningar og áminningar. Esaías, Jeremías, Esekíel og Daníel eru kalladir stærri spámennirnir, en hinir tólf smærri spámennirnir, því rit þeirra eru minni. Þeir heita: Hóseas, Jóel, Amos, Obadías, Jónas, Mikkas, Nahúm, Habakuk, Seffanías, Haggaí, Sakarías, Malakías.

Malakías, hinn sídasti af spámønnunum, lifdi skømmu eptir útlegdina í Babýlon. Bækur þær, sem eptir þá daga voru ritadar hjá Gydingum, eru ekki taldar med hinum helgu bókum. Samt eru nokkrar af þeim í ritningunni, og køllum vèr þær apokryfiskar

bækur. Merkilegastar þeirra eru Tobías-bók, Spekinnar bók, Siraks bók og tvær bækur Makkabeanna.

### Hinir skriptlærdu Faríseár og Sadúsear.

Hinar helgu bækur voru lesnar og útlistadar fyrir Gydingum í samkunduhúsum þeirra, sem þeir høfdu byggt vída um landid, eptir ad þeir komu heim úr útlegdinni í Babýlon. Menn þeir, sem lásu og útlistudu ritninguna, voru kalladir skriptlærdir. Flestir skriptlærdir heyrdu til flokki þeim, er nefndur var Faríseár, en sumir ødrum flokki, sem kalladist Sadúsear. Faríseár þóttust halda stranglega løgmál Móses, og lýdurinn áleit þá mjøg heilaga. En flestir þeirra gjørdu sèr meira far um ad sýnast heilagir fyrir mønnum, en ad laga hugarfar sitt eptir løgmáli Guds; urdu þeir því hræsnarar og skinhelgir. Sadúsear høfdu ekki mikla lotningu fyrir Guds ordi; þeir trúdu því hvorki ad til væru englar, nè upprisa edur eilíft líf.

# Frásögur
## úr nýja testamentinu.

---

1.

### Engill Drottins kemur til Sakaríasar.

Þegar Heródes konungur rèdi fyrir Gydingalandi, var þar prestur nokkur, er Sakarías hèt; kona hans hèt Elísabet. Þau voru bædi gudhrædd; þau voru hnigin á efra aldur og áttu ekki børn. Einhverju sinni bar svo til, þegar Sakarías gegndi prestsverkum í musterinu, ad eingill Drottins birtist honum. Sakarías vard hræddur, en engillinn sagdi vid hann: „vertu óhræddur Sakarías! því bæn þín er heyrd. Kona þín Elísabet mun fæda þèr son, þann skaltu Jóhannes nefna; hann mun verda þèr til fagnadar og gledi. Hann mun ganga fyrir Guds augliti í Elíasar anda og krapti, svo hann tilreidi Drottni vel undir-

búinn lýd. Þetta rættist eptir ordum engilsins: Elísabet fæddi son, og var hann nefndur Jóhannes.

## 2.

## Engill Drottins kemur til María meyjar.

Sex mánudum eptir ad engill Drottins kom til Elísabetar, var hann sendur til borgarinnar Nazaret í Galileu, til meyjar einnar af Davíds ætt, sem hèt María. Hún var heitkona manns þess, sem Jósep hèt, og var trèsmidur. Engillinn kom inn til hennar og sagdi: „heil vert þú, sem nýtur nádar Guds og hylli, þú hin sælasta allra kvenna". María vard hrædd, því hún skildi ekki þessa kvedju. En engillinn sagdi vid hana: „hræddstu ekki, María! Gud er þèr náduzur; þú munt barnshafandi verda og fæda sveinbarn; hann skaltu láta heita Jesús; hann mun mikill verda og kallast sonur hins hæsta; Drottinn mun gefa honum ríki Davíds forfødur síns, og á hans ríki mun enginn endir verda".

María spurdi nú, hvernig þetta mætti ske, þar hún væri vid engan karlmann kennd. Engillinn svaradi: „heilagur andi mun koma yfir þig, og kraptur hins ædsta mun yfir skyggja þig, og þar fyrir mun þad heilaga, sem af þèr fædist, kallast sonur Guds". Þá sagdi María: „sjá, eg em ambátt Drottins; rætist á mèr ord þín".

3.

## Fæding Jesú.

Mikkas spámadur hafdi spád því, ad Kristur mundi fædast í Betlehem, og þad rættist einnig. Águstus keisari hafdi um þessar mundir bodid ad taka manntal, og gekk þad bod hans um allt Gydingaland, ad allir skyldu mæta í þeirri borg, sem þeir voru ættadir úr, til þess þeir yrdu færdir þar í manntalid. Jósep og María voru bædi af Davíds ætt, og fóru því til borgarinnar Betlehem í Júdeu, því þar var Davíd fæddur. Og er þau voru komin þangad, fæddist

frelsari heimsins Jesús Kristur á næturtíma, og María módir hans vafdi hann reifum og lagdi hann í jøtu, því þau fengu ekki húsrúm í gestaherberginu.

Fjárhirdarar nokkrir í því byggdarlagi vøktu um hina sømu nótt úti yfir hjørd sinni. Allt í einu birtist þeim engill Drottins, og mikil birta ljómadi í kring um þá, svo þeir urdu hræddir. En engillinn sagdi vid þá: „óttizt ekki, því eg flyt ydur stór fagnadartídindi, sem vidkoma øllu fólki; því í dag er ydur frelsari fæddur, hver ad er Drottinn Kristur, í borg Davíds, og hafid þad til marks, ad þèr munud finna reifad barn liggjanda í jøtunni". Og strax var þar hjá englinum mikill fjøldi himneskra hersveita, sem lofudu Gud og søgdu: dýrd sè Gudi í upphædum, fridur á jørdu, og velþóknan yfir mønnunum". Sídan fóru englarnir aptur upp til himins, en hirdararnir fóru med skyndi til Betlehem, og fundu Maríu og Jósep og barnid liggjanda í jøtunni. Þeir skýrdu sídan frá því, er þeim hafdi

verið sagt um sveininn, og allir undruðust það. Síðan snèru hirðararnir aptur og lofuðu Guð fyrir allt það, sem þeir höfðu sèð og heyrt.

## 4.

# Æska Jesú.

### 1. Símeon og Anna.

Fjörutíu dögum eptir að Jesús var fæddur, fóru þau María og Jósep upp í musterið í Jerúsalem, og höfðu Jesúm með sèr. Þau hittu þar gamlan mann guðhræddan, sem hèt Símeon. Hann hafði mjög þráð eptir, að frelsarinn kæmi í heiminn, og Guð hafði heitið honum, að hann skyldi ekki deyja fyr en hann sæi Krist. Þegar hann sá barnið, tók hann það í fang sèr, lofaði Guð og sagði: „lát þú nú, Drottinn! þjón þinn í friði leysast, eins og þú hefir mèr heitið, þar eð eg hefi fengið að sjá þann, sem þú hefir ætlað til hjálpræðis öllum þjóðum“.

Þar kom og til þeirra gömul ekkja, sem

hèt Anna. Hún gladdist mjøg af því ad frelsarinn var fæddur, og sagdi þad øllum þeim í Jerúsalem, sem væntu frelsarans.

## 2. Vitringarnir úr Austurløndum.

Eptir ad Jesús var fæddur, komu vitringar úr Austurløndum og spurdu: „hvar er sá nýfæddi konungur Gydinga? Vèr høfum sèd hans stjørnu í Austurløndum, og erum komnir til ad veita honum lotningu“. Þegar Heródes heyrdi þad sagt, ad konungur væri fæddur, vard hann hræddur og lèt kalla saman presta og skriptlærda, og spurdi þá hvar Kristur ætti ad fædast. Þeir svørudu honum, ad eptir spádómunum ætti hann ad fædast í Betlehem. Heródes lèt þá vitringana fara til Betlehem, og beiddi þá ad segja sèr til, þegar þeir hefdu fundid barnid, svo hann einnig gæti komid til ad audsýna því lotningu. Þeir fóru nú til Betlehem og fundu þar barnid ásamt módur þess, fèllu fram fyrir því, og færdu því gjafir: gull, reykelsi og myrru. Sídan fóru þeir heim adra leid, því Gud

hafdi gefid þeim ávísun í draumi, ad þeir skyldu ekki fara aptur til Heródesar. Þegar Heródes sá, ad vitringarnir komu ekki aptur, vard hann afar reidur; því hann vildi frètta af þeim hvar barnid væri, svo hann gæti líflátid það. Lèt hann nú myrda øll børn í Betlehem og þar í grennd, tvævetur og þau er yngri voru. En Jesús var þá ekki í Betlehem, því Gud hafdi látid engil segja vid Jósep í draumi: „stattu upp, tak barnid og módur þess, og flý til Egyptalands, því Heródes mun leita barnsins ad fyrirfara því“. Jósep hafdi því strax farid, og gjørt eins og Drottinn baud honum. Þau komu því til Egyptalands, og voru þar þangad til Heródes var daudur; þá fóru þau heim aptur og bjuggu í Nazaret.

### 3. Jesús tólf ára gamall.

Jósep og María voru vøn ad fara á ári hverju til Jerúsalem, til ad halda Páskahátídina, eptir løgmáli Drottins. Jesús var þá tólf ára gamall, og fór med þeim. Þegar

hátídin var lidin, snèru þau heimleidis, en Jesús hafdi ordid eptir í Jerúsalem, án þess þau yrdu vør vid þad. Þau voru komin eina dagleid, og ætludu, ad Jesús mundi vera hjá frændum eda kunningjum á medal samferdamannanna. Þau leitudu hans því, en fundu hann ekki, og snèru því aptur til Jerúsalem og leitudu þar. Eptir þrjá daga fundu þau hann í musterinu; sat hann þar á medal lærifedranna, hlýddi á tal þeirra og spurdi þá; en alla, sem heyrdu, furdadi á skilningi hans og andsvørum. Þá sagdi María vid hann: „því breyttir þú svo vid okkur, sonur minn? fadir þinn og eg leitudum þín sorgmædd". En Jesús svaradi: „því hafid þid leitad eptir mèr? vissud þid ekki, ad mèr ber ad vera í því, sem míns fødurs er?" Jesús fór nú med þeim til Nazaret, og var þeim hlýdinn; honum óx vizka med aldri og hylli Guds og manna.

## 5.
## Jóhannes skírari.

Þegar Jóhannes Sakaríasson var orðinn fulltíða maður, fór hann út á eyðimörku við ána Jórdan. Þrítugur að aldri tók hann til að kenna fólkinu, sem flykktist að honum á eyðimörkinni. Hann áminnti það og sagði:" bætið ráð yðar, því himnaríki er nálægt". „Nú þegar ríður öxin að rótum trjánna, og mun þá hvert það trè, sem ekki ber góðan ávöxt, upphöggvið verða og í eld kastað". Alla þá, sem játuðu syndir sínar, skírði hann í Jórdan. Margir af fólkinu hèldu, að Jóhannes væri Kristur, og prestar og skriptlærðir voru sendir frá Jerúsalem til að spyrja hann um það. En hann svaraði: „ekki em eg Kristur. Eg er rödd þess, sem hrópar í eyðimörku; gjörið beinan veg Drottins, eins og Esaías spámaður hefir sagt. Eg skíri yður einungis í vatni, en sá, sem eptir mig kemur, er mèr svo miklu meiri, að eg er ekki verður að bera skóklæði hans; hann mun skíra

ydur med heiløgum anda og eldi“. Degi sídar, þegar Jóhannes sá Jesúm koma til sín, sagdi hann: „sjá þad Guds lamb, sem burt ber heimsins synd“.

Í rúmt missiri hèlt Jóhannes áfram ad kenna og skíra, en þá lèt Heródes Antípas, jarl í Galíleu, setja hann í myrkvastofu, því Jóhannes ávítadi hann fyrir þad hann hafdi tekid saman vid konu bródur síns. Þegar Jóhannes hafdi um hríd setid í myrkvastofunni, lèt Heródes hálshøggva hann.

## 6.

## Skírn Jesú.

Þegar Jesús var þrjátíu ára gamall, kom hann ad Jórdan, þar sem Jóhannes kenndi og skírdi, og beiddist þess, ad Jóhannes skírdi hann. En Jóhannes skoradist undan því og sagdi: „mèr er þørf ad eg skírist af þèr, og þú kemur til mín“. Þá svaradi Jesús: „veittu mèr þetta, því þannig heyrir okkur ad gjøra allt þad sem rètt er“. Sídan skírdi Jóhannes

hann. Þegar Jesús var skírdur, og stè aptur upp úr vatninu, kom Guds andi nidur yfir hann af himni í dúfu líkingu. Þá heyrdist rødd af himni, sem sagdi: „þessi er sonur minn elskulegur, á hverjum eg hefi velþóknun“.

## 7.

## Freisting Jesú á eydimørkinni.

Eptir skírnina var Jesús af Guds anda leiddur út á eydimørku, svo hann yrdi freistadur af Djøflinum. Þegar hann hafdi fastad í fjørutíu daga, tók hann ad hungra. Þá kom freistarinn til hans og sagdi: „ef þú ert Guds sonur, þá bjód þú, ad steinar þessir verdi ad braudum“. En Jesús svaradi: „skrifad stendur: madurinn lifir ekki af einu saman braudi, heldur af sèrhverju því ordi, sem framgengur af Guds munni“.

Þessu næst tók Djøfullinn hann med sèr í borgina helgu, og fór med hann upp á musteris bustina, og sagdi vid hann: „ef þú ert sonur Guds, þá kasta þèr hèr ofan fyrir, því

skrifad er: Gud mun bjóda englum sínum ad sjá þèr borgid, og þeir munu bera þig á høndum sèr, ad ekki steytir þú fót þinn vid steini". Jesús svaradi: „aptur stendur skrifad: ekki skaltu freista Drottins Guds þíns".

Þá tók Djøfullinn hann med sèr upp á ofur hátt fjall, sýndi honum þadan øll ríki veraldarinnar og þeirra dýrd, og mælti: „allt þetta mun eg gefa þèr, ef þú fellur fram og tilbidur mig". En þá sagdi Jesús vid hann: „far frá mèr, Satan! því svo er skrifad: Drottinn Gud þinn skaltu tilbidja og honum einum þjóna". Þá yfirgaf Djøfullinn hann, og englar komu og þjónudu Jesú.

8.

## Jesús byrjar kenningar sínar.

Eptir skírn sína og freistingu, kom Jesús fram á medal fólksins eins og spámadur, eda frædari, sendur af Gudi. Hann fór úr einum stad í annan á Gydingalandi, og hvar sem hann kom, flykktist fólkid ad honum, til

ad hlýda á kenningar hans. Fólkid undradist mjøg kenningar hans, því hann kenndi eins og sá, sem hafdi vald til þess af Gudi, en ekki eins og hinir skriptlærdu.

Nú færdi Jesús þann fagnadarbodskap, ad hann væri hinn fyrirheitni frelsari og Guds eingetinn sonur, og ad allir þeir, sem á hann trydu, ekki skyldu fyrirfarast, heldur hafa eilífa sælu. Med mikilli ástúd kalladi hann syndara til sín og sagdi: „komid til mín, allir þreyttir, og þèr, sem mædizt undir þungum byrdum, eg vil gefa ydur hvíld".

Vid þenna fagnadarbodskap edur Evangelium sameinadi hann alvarlegar áminningar um betrun lífernisins. Hann kenndi, ad inntak løgmálsins væri þad, ad vèr skyldum elska Drottinn Gud vorn af øllu hjarta og náungann eins og sjálfa oss, og hann sagdi, ad lærisveinar sínir þekktust af því, ad þeir elskudust innbyrdis. Hans eigid líferni var algjørd fyrirmynd

heilagleikans; því hann drýgdi aldrei synd, og svik voru ekki fundin í hans munni.

9.

## Jesús kýs tólf postula.

Skømmu eptir ad Jesús hafdi byrjad kenningar sínar, kaus hann tólf menn, sem hann sérílagi vildi hafa fyrir lærisveina og til ad flytja kenningu sína. Þeir kølludust einnig postular eda sendibodar, því þeir áttu sídar ad fara út um heiminn, og prèdika um frelsarann. Þessir tólf menn fylgdu Jesú eptir, þar sem hann fór. Pètur og Jóhannes voru fremstir þeirra. Pètur hèt í fyrstu Símon, en Jesús gaf honum nafnid Petrus eda Pètur, sem þýdir hella. Jóhannes var kærastur Jesú af øllum lærisveinunum, því kallast hann í ritningunni lærisveinn sá, sem Drottinn elskadi. Jakob bródir Jóhannesar, og Andrès, bródir Pèturs, voru einnig medal þessara tólf. Þessir fjórir voru fiskimenn, ádur en Drottinn tók þá fyrir

lærisveina. Einn þeirra, Matteus ad nafni, var tollheimtumadur. Hinir voru: Filippus, Bartólómeus, Tómas, Jakob Alfeusson, Símon vandlætari, Júdas Taddeus og Júdas frá Karíot.

Nokkru eptir ad Jesús hafdi kosid þessa tólf postula, sendi hann þá um tíma til ad kenna í Gydingalandi, tvo og tvo saman. Hann baud þeim ad kunngjøra, þar sem þeir kæmu, ad Guds ríki væri nálægt. Þegar þeir voru komnir til hans aptur, sendi hann med líkum hætti út sjøtíu adra lærisveina sína.

## 10.

## Dæmisøgur Jesú.

Þegar Jesús kenndi lærisveinum sínum og fólkinu, taladi hann opt í dæmisøgum, og brúkadi jardneska hluti og daglega atburdi, til ad tákna þá hluti, sem heyrdu til Guds ríki.

### 1. Sádmadurinn.

Einhverju sinni hafdi margt fólk flykkzt ad Jesú vid sjóinn Genezaret. Stè hann

þá út á skip nokkurt, og sagdi þessa dæmisøgu þeim sem á landi stódu: Sádmadur nokkur fór ad sá akur sinn; en er hann var ad sá, fèll sumt sædid vid veginn og vard fóttrodid, og átu fuglar þad. Sumt fèll á grýtta jørd, hvar þad hafdi ekki nógan jardveg; þad óx upp, en skrælnadi aptur, því þad vantadi vøkva. Sumt fèll medal þyrna; uxu þeir upp med og kæfdu þad. Sumt fèll í góda jørd og bar ávøxt, sumt hundradfaldan, sumt sextugfaldan, en sumt þrítugfaldan.

Jesús útþýddi þessa dæmisøgu þannig: Sædid merkir Guds ord. Þad sem fèll vid veginn þýdir, ad nokkrir heyra Guds ord og skilja þad ekki; þá kemur hinn vondi og tekur burt þad, sem sád var, úr hjørtum þeirra. Þad sem fèll í grýtta jørd þýdir, ad nokkrir heyra Guds ord, og veita því vidtøku med føgnudi, en þad hefir ekki vidnám hjá þeim; því þegar þeim mæta mótgangur og ofsóknir, þá falla þeir frá. Þad sem fèll á medal þyrna þýdir þá, sem ad sønnu heyra ordid,

en það verður niðurkæft af umhyggju fyrir lífi þessu og táldrægni auðæfanna, svo það ber engan ávöxt. Það sem fèll í góða jörð þýðir þá, sem heyra orðið, geyma það í góðu og siðsömu hjarta, og bera ávöxt með stöðuglyndi.

## 2. Illgresið á meðal hveitisins.

Þegar Jesús kenndi fólkinu af skipinu, sagði hann einnig þessa dæmisögu: Maður nokkur sáði góðu sæði í akur sinn. En er menn voru í svefni, kom óvinur hans, og sáði illgresi meðal hveitisins, og fór síðan á burt. Þegar hveitið spratt upp. og tók að bera ávöxt, kom illgresið einnig í ljós. Þjónar húsbóndans gengu þá til hans og sögðu: „herra! sáðir þú ekki góðu sæði í akur þinn? eður því ber hann illgresi?" Hann mælti: „það hefir óvinurinn gjört". Þá sögðu þjónarnir: „viltu ekki að vèr förum og upprætum það?" En hann sagði: „ekki vil eg það, að þèr ekki, nær þèr upprætið illgresið, rífið hveitið upp með. Látið hvorttveggja vaxa

saman til kornskerunnar og þegar kornskerutíminn kemur, vil eg bjóda kornskerumønnunum, ad safna fyrst saman illgresinu og binda það í knippi, til ad brennast, en safna hveitinu í mína kornhløðu".

Þessa dæmisøgu útþýddi Jesús þannig fyrir lærisveinum sínum: sá sem sádi því góða sædi er mannsins sonur. Akurinn þýdir verøldina; góða sædid þýdir Guðs børn, en illgresid børn hins vonda, en óvinurinn, er sádi því, merkir Djøfulinn. Kornskerutíminn merkir enda heimsins; kornskurdarmennirnir merkja englana. Eins og nú illgresinu verdur safnad til ad brenna það, eins mun fara vid enda veraldar þessarar: mannsins sonur mun senda engla sína, ad þeir samansafni úr hans ríki øllum þeim, er adra afvega leida og rangt gjøra, og kasta þeim í ofn glóanda, þar sem vera mun grátur og gnistur tanna. Þá munu þeir góðu skína sem sól í ríki fødur þeirra.

### 3. Hinn skuldugi þjón.

Pètur spurdi Jesúm einhverju sinni: „hversu opt skal eg fyrirgefa þeim sem gjörir á móti mèr? Er ekki nóg ad gjöra þad sjø sinnum?“ Jesús mælti: „ekki sjø sinnum, heldur sjøtíu sinnum sjø sinnum“. Sídan sagdi hann lærisveinum sínum þessa dæmisøgu: konungur nokkur vildi halda reikningsskap vid þjóna sína, en þá kom til hans madur sá, er honum var skyldugur um tíu þúsund punda, og sem hann nú ekki hafdi þau til ad borga med skuld sína, baud konúngurinn ad selja skyldi sjálfan hann, konu hans og børn og alla eigu hans, ad borga med skuldina. Þá fèll þjóninn til fóta hans og mælti: „umlíd þú mig, herra! allt skal eg lúka“. Þá aumkadist herrann yfir þenna þjón, lèt hann á burtu fara, og gaf honum upp alla skuldina. En er hann fór út, hitti hann einn af samþjónum sínum, er honum var skyldugur um hundrad peninga; þenna tók hann høndum, tók fyrir kverkar

honum og mælti: „gjald þad þú ert mèr skyldugur“. En samþjón hans fèll fram ad fótum honum, og bad, ad hann vildi umlída sig, og lofadi ad lúka honum allt. En hann vildi ekki, og setti hann í myrkvastofu, uns hann hafdi skuldinni lokid. En er samþjónar hans sáu hvad skedi, urdu þeir mjøg hryggvir. Fóru þeir því og søgdu konungi allt hvad gjørzt hafdi. Þá lèt konungurinn kalla þenna mann fyrir sig og mælti: „þú illi þegn! alla þessa skuld gaf eg þèr upp, sakir þess þú badst mig; hvert sæmdi þèr þá ekki einninn ad vera miskunsamur vid þinn samþjón, eins og eg var miskunsamur vid þig?“ Konungurinn setti hann sídan í myrkvastofu, uns hann hafdi goldid allt þad, er hann var skyldugur. „Þann veg“, sagdi Jesús, „mun og minn himneski fadir breyta vid ydur, ef þèr ekki, hver og einn, forlátid ødrum af heilum huga sín afbrot“.

### 4. Hinn miskunsami Samaríti.

Skriptlærdur madur spurdi Jesúm einhverju

sinni: „hver er minn náungi?“ Þeirri spurningu svaradi Jesús med þessari dæmisøgu: madur nokkur ferdadist frá Jerúsalem til Jerikó, og fèll í hendur ræningja, sem flettu hann klædum, veittu honum áverka, fóru sídan burtu og lètu hann eptir daudvona. Svo bar til, ad prestur nokkur fór þenna sama veg, og er hann sá hann, gekk hann fram hjá. Sídan kom Levíti, og sá hann, en gekk einninn fram hjá. En þá kom Samverskur madur, er fór um farinn veg. Og er hann sá hann, kenndi hann í brjósti um hann, kom og batt sár hans, og hellti í þau vidsmjøri og víni, setti hann sídan upp á sinn eiginn eyk og flutti hann til gestgjafahúss, og lèt sèr hugarhaldid um hann. Degi sídar, er hann var ferdbúinn, tók hann upp tvo peninga, fèkk gestgjafanum og mælti: „al þú ønn fyrir honum, og þad, sem þú kostar meiru til, skal eg borga þèr, þegar eg kem aptur“. Sídan sagdi Jesús vid hinn skriptlærda: „hver af þessum þremur sýnist þèr vera náungi þess,

sem fèll í hendur reyfurunum?" Hann mælti: „sá sem miskunarverkid gjørdi á honum". Jesús sagdi: „far þú og gjør hid sama".

5. **Hinn audugi madur.**

Jesús sagdi einhverju sinni vid fólkid: varid ydur vid ágirni, því enginn verdur sælli fyrir þad, þó hann hafi aud fjár". Til þess ad innræta þetta, sagdi hann þessa dæmisøgu: þad var madur nokkur audugur, hvers akur hafdi borid honum mikinn ávøxt. Þá hugsadi hann med sèr: „hvad skal eg nú gjøra? eg hefi ekki hvar eg geti samansafnad ávøxtum mínum. Þetta skal eg gjøra: rífa nidur hlødur mínar og byggja adrar stærri; þangad vil eg safna øllum ávøxtum mínum og audæfum. Þá vil eg segja vid sjálfan mig: þú hefir fengid mikinn aud og ert byrgur í mørg ár, hvíl þig nú, et þú og drekk og vert gladur". En Gud sagdi vid hann: „dári! í nótt mun líf þitt verda tekid frá þèr, og hvers verdur þá þad þú hefir safnad?"

„Svo fer þeim", sagdi Jesús, „er sèr safnar fè, án þess ad vera í Gudi ríkur".

### 6. Hid ófrjóssama fíkjutrè.

Jesús kenndi þessa dæmisøgu um langlundarged Guds vid syndugu menn: madur nokkur átti fíkjutrè í víngardi sínum og leitadi ávaxta á því, en fann ekki. Þá sagdi hann vid víngardsmanninn: „í þrjú ár hefi eg komid og leitad ávaxta á þessu fíkjutrè og ekki fundid; høgg þú þad upp; hvers vegna skal þad spilla jørdunni?" Víngardsmadurinn svaradi: „leyf þú því, herra! enn nú ad standa þetta árid, þar til eg hefi grafid um þad og borid ad myki, ef vera kynni, ad þad beri ávøxt; ef ekki, þá lát þú høggva þad upp sídar".

### 7. Hinn tapadi sonur.

Faríseanir þóttust vera mjøg rèttlátir og ømudust því vid, ad Jesús hefdi umgengni vid þá menn, sem þeir fyrirlitu og kølludu bersynduga. Jesús sagdi því vid þá: „trúid mèr, meiri gledi mun á himni verda

yfir einum syndugum, sem bætir ráð sitt, en yfir níutíu og níu rèttlátum, er ekki þurfa endurbótar við. Síðan sagði hann þessa dæmisøgu: maður nokkur átti tvo sonu. Sá yngri þeirra sagði við føður sinn: „lát mig fá þann hluta fjárins, sem mèr ber.“ Faðirinn skipti milli þeirra fènu. Síðan tók sá yngri fè sitt og ferðaðist í fjarlægt land; þar sóaði hann fè sínu í óhófsømum lifnaði. Nú er hann hafði eytt øllum eigum sínum, kom mikið hallæri í landið; tók hann þá að líða nauð; gekk hann þá í þjónustu hjá manni nokkrum þar í landinu, sem sendi hann út á bú sitt, að gæta þar svína sinna. Átti hann þá svo bágt, að hann girntist að seðja sig af drafi því, er svínin átu. Nú sá hann að sèr og sagði: „hversu marga daglaunamenn heldur faðir minn, sem hafa gnægð matar, en eg ferst í hungri; eg vil taka mig upp og fara til føður míns og segja við hann: faðir! eg hefi misbrotið við Guð og þig og er ekki lengur verður að heita sonur þinn.

Lát þú mig hafa árangur með einum af verkamønnum þínum“. Bjóst hann þá til ferðar til fødur síns, En er hann var enn nú langt í burtu, þekkti fadir hans hann, kenndi í brjósti um hann, hljóp og fèll um háls honum og kyssti hann. En sonurinn sagði við hann: „faðir minn! eg hefi misbrotið við Guð og þig, og er nú ekki framar verður að heita sonur þinn“. Faðirinn sagði þá við þjóna sína: „færið hingað hina beztu skikkju og færið hann í, dragið hring á hønd hans og skó á fætur honum; komið með alikálf og slátrið, svo vèr getum matazt og verið glaðir; því þessi sonur minn, sem var dauður, er lifnaður aptur, og hann, sem týndur var, er fundinn“.

Eldri sonurinn var á akri, en er hann kom heim, heyrði hann søng og dans. Spurði hann þá hvað um væri, og frètti að bróðir hans væri kominn heim, og því hefði faðir hans gjørt veizlu. Reiddist hann þá og vildi ekki fara inn. Faðir hans fór því út og

band honum inn ad koma. En hann sagdi: „í svo mørg ár hefi eg nú þjónad þèr, og aldrei breytt út af bodum þínum, þó hefir þú aldrei gefid mèr kidling, ad eg mætti gledjast med vinum mínum; en þessi sonur þinn, sem sóad hefir aleigu sinni med skækjum, er nú kominn, og hans vegna slátrar þú alikálfi". Fadirinn sagdi þá vid hann: „sonur minn! þú ert allt af med mèr, og allar mínar eigur heyra þèr til; nú ættir þú ad vera gladur og í gódu skapi, þar bródir þinn, sem daudur var, er lifnadur aptur, og hann, sem týndur var, er fundinn".

### 8. Hinn ríki og hinn fátæki.

Jesús sagdi þessa dæmisøgu til vidvørunar hinum ríku, en til huggunar gudhræddum fátæklingum: þad var einu sinni ríkismadur, sem klæddist purpura og dýrindis líni, og lifdi hvern dag í dýrlegum fagnadi. Annar madur var fátækur, sem hèt Lazarus; hann lá vid dyr hins ríka, hladinn kaunum, og girntist ad sedja sig af molum þeim, er

fèllu af bordum ens ríka, og jafnvel hundar komu og sleiktu sár hans. En svo bar vid, ad hinn fátæki dó, og var borinn af englum í fadm Abrahams; sömuleidis dó hinn ríki og var grafinn. En er hann var í helvítis kvölum, þá hóf hann upp augu sín, sá Abraham álengdar og Lazarus í fadmi hans. Þá kalladi hann: „fadir Abraham! miskuna þú mèr, og send Lazarus, ad hann dýfi fingurgómi sínum í vatn og kæli tungu mína, því eg kvelst í þessum loga“. En Abraham svaradi: „minnstu þess, sonur! ad þú naust hins góda í lífinu, en Lazarus ens vonda, því verdur hann nú huggadur, en þú kvalinn. Auk alls þessa er því svo varid, ad á medal vor og ydar er stór geimur, svo hvorki þeir, sem vilja hèdan til ydar, edur frá ydur til vor, geta komizt yfir“. Þá sagdi hann: „þá bid eg þig, fadir! ad þú sendir hann í hús födur míns, því eg hefi fimm brædur, ad hann vari þá vid, ad ekki komi þeir líka í þenna kvalastad“. Abraham sagdi: „þeir hafa Mó-

ses og spámennina, hlýdi þeir þeim". Hinn mælti: „nei, fadir Abraham! heldur ef nokkur daudra kæmi til þeirra, þá mundu þeir bæta ráð sitt". Þá svaradi Abraham: „ef þeir vilja ekki hlýdnast Móses og spámønnunum, munu þeir ekki heldur trúa, þótt einhver daudur upp risi".

### 9. Faríseinn og tollheimtumadurinn.

Jesús sagdi þeim, sem þóttust ødrum betri og fyrirlitu adra, þessa dæmisøgu: tveir menn fóru upp í musterid ad bidjast fyrir, annar var Farísei, en hinn tollheimtumadur. Faríseinn stód og badst þannig fyrir med sjálfum sèr: „Gud! eg þakka þèr, ad eg er ekki sem adrir menn, ræningjar, óráðvandir, hórkarlar, edur eins og þessi tollheimtumadur. Eg fasta tvisvar í viku, og geld tíundir af øllu því eg á". Tollheimtumadurinn stód langt frá, og vildi ekki hefja augu sín til himins, heldur bardi sèr á brjóst og sagdi: „Gud! vertu mèr syndugum líknsamur!" „Trúid mèr", sagdi Jesús, „ad þessi

fór Gudi þekkari en hinn heim í sitt hús; því hver sem upphefur sjálfan sig, hann mun nidurlægjast, en hver hann lítillækkar sjálfan sig, hann mun upphafinn verda".

## 11.

## Kraptaverk Jesú.

Medan Jesús gekk í kring og kenndi, gjørdi hann mjøg mørg kraptaverk, til sønnunar því, ad þad væri sannleiki, sem hann kenndi. Med kraptaverkum þessum sýndi hann bædi almætti sitt og kærleika, og løngun til ad hjálpa bágstøddum.

### 1. Jesús læknar hinn visna.

Einhverju sinni, er Jesús var í Kapernaum og kenndi, var færdur til hans visinn madur, sem lá í rekkju. Þegar Jesús sá trú þeirra, sem komu med manninn, sagdi hann vid hinn visna: „vertu hughraustur, sonur! þínar syndir eru þèr fyrirgefnar". Nokkrir skriptlærdir álitu þetta ad vera gudløstun, þar enginn gæti fyrirgefid syndirnar, nema Gud

einn. En er Jesús vard var vid hvad þeir hugsudu, sagdi hann: „því hugsid þèr svo illt? hvort er audveldara ad segja: syndir þínar eru þèr fyrirgefnar, edur ad segja: statt upp og gakk? En til þess ad þèr skulid vita, ad mannsins sonur hefir vald til ad fyrirgefa syndir á jørdunni, þá (segir hann til hins visna) statt upp, tak sæng þína og gakk heim til þín". Og hann stód upp og fór heim til sín og lofadi Gud.

2. **Jesús læknar dóttur hinnar kanversku konu.**

Jesús fór einhverju sinni í landsbyggdir Týrusar og Sídonar. Þá kom kona nokkur kanversk og kalladi á hann og sagdi: „miskuna mèr, herra! þú nidji Davids; dóttir mín kvelst þunglega af djøflinum". En Jesús svaradi henni engu ordi. Lærisveinar hans komu þá til hans og bádu, ad hann veitti henni úrlausn, þar hún kalladi eptir þeim. Jesús mælti: „eg er ekki sendur nema til týndra sauda af Israels ætt." Konan kom nú og fèll fram fyrir honum og mælti: „hjálpa þú

mèr, herra!" En hann svaradi: „ekki sæmir ad taka braudid frá børnunum, og kasta því fyrir hundana". „Satt er þad, herra!" mælti konan, „þó eta hundarnir mola þá, sem falla af bordum drottna þeirra". Þá sagdi Jesús vid hana: „mikil er þín trú, kona! verdi þèr sem þú vilt". Og dóttir hennar vard samstundis heilbrigd.

### 3. Jesús kyrrir vindinn á sjónum.

Jesús fór á kvøldtíma á skipi yfir sjóinn Genezaret, med lærisveinum sínum. Þá gjørdi vedur mikid, svo bylgjurnar fèllu yfir skipid, en Jesús svaf í skutnum. Lærisveinarnir fóru þá og vøktu hann og søgdu: „hjálpa þú oss, herra! vèr forgøngum". En hann sagdi vid þá: „hví erud þèr svo hræddir, þèr trúarveiku?" Hann stód sídan upp, og hastadi á vindinn og sjóinn; vard þá blída logn. Þetta undrudust menn og søgdu: „hvílíkur er þessi, ad bædi vedur og sjór hlýda honum?"

### 4. Jesús mettar fimm þúsundir manns.

Ødru sinni fór Jesús med lærisveinum

sínum yfir um sjóinn, á afvikinn stad. En fólkid flykktist þangad á undan honum landveg, og søfnudust samar nær fimm þúsundir manns. En er Jesús sá mannfjøldann, kenndi hann í brjósti um fólkid, prèdikadi fyrir því um Guds ríki, og læknadi þá, sem þess þurftu. En er degi tók ad halla, komu lærisveinarnir til hans og bádu, ad hann lèti fólkid frá sèr fara, svo þad færi í þorpin þar í kring, og leitadi sèr náttstada og matar, þar þeir væru í óbyggdum. Þá sagdi Jesús vid þá: „gefid þèr þeim mat". Þeir svørudu: „ekki høfum vèr nema fimm braud og fiska tvo, nema ef vèr eigum ad fara og kaupa øllum þessum mannfjølda mat". En Jesús lèt fólkid setjast nidur á grasid, tók þau fimm braud og tvo fiska, leit upp til himins, gjørdi Gudi þakkir, og fèkk sídan lærisveinunum, en þeir fengu aptur fólkinu; møtudust allir og urdu mettir. Sídan sagdi Jesús vid lærisveina sína: „takid saman leifarnar, sem afgangs eru, svo ekkert spillist". Þeir fylltu tólf karfir med leifarnar. Þegar

fólkid sá þad teikn, sem Jesús gjørdi, sagdi þad: „þessi er sannarlega sá spámadur, sem á ad koma í heiminn“. En þar Jesús vissi, ad þeir mundu koma og taka hann, til þess ad gjøra hann ad konungi, veik hann aptur affídis einsamall upp á fjallid, en lærisveinarnir fóru aptur til Kapernaum.

### 5. Jesús lífgar son ekkjunnar í Nain.

Jesús fór einhverju sinni til borgar þeirrar, sem hèt Nain; voru margir lærisveinar hans med honum og fjøldi fólks. Þegar þeir komu ad borgarhlidinu, stód svo á, ad þar var borinn út daudur madur; hann var einbirni og módir hans ekkja; fylgdi henni fjøldi bæjarmanna. Þegar Drottinn sá hana, kenndi hann í brjósti um hana, og sagdi vid hana: „grát þú ekki“. Sídan gekk hann ad líkbørunum og sagdi: „eg býd þèr, þú ungi madur! ad þú rísir upp“. Þá settist sá upp, sem daudur var og tók ad mæla, og Jesús gaf hann aptur módurinni. Þá vegsømudu allir Gud og søgdu: „spámadur mikill er kominn

til vor, Guð hefir litið í náð sinni til síns lýðs".

### 6. Jesús uppvekur Lazarus.

Einn af vinum Jesú hèt Lazarus, og átti hann heima í Betaníu, nálægt Jerúsalem, með systrum sínum Mørtu og Maríu. Lazarus varð einhverju sinni veikur, og sendu systur hans til Jesú, og lètu segja honum: „herra! sá sem þú elskar, hann er veikur". Jesús dvaldi þá enn nú í tvo daga, en að þeim liðnum, sagði hann við lærisveina sína: „Lazarus vinur vor er sofnaður, en eg fer nú til að vekja hann". Þá søgðu lærisveinarnir: „herra! ef hann er sofnaður, þá mun honum batna". Jesús sagði þeim þá berlega: „Lazarus er dáinn". En er Jesús kom til Betaníu, hafði Lazarus þegar legið fjóra daga í grøfinni, og margir Gyðingar voru komnir til Mørtu og Maríu, til að hugga þær eptir bróður þeirra. Þegar Marta heyrði, að Jesús kæmi, fór hún móti honum og sagði: „herra! hefðir þú verið hèr, væri bróðir minn ekki

dáinn". Jesús svaradi henni: „bródir þinn mun upprísa. Eg em upprisan og lífid, hver sem trúir á mig, hann mun lifa, þótt hann deyi". Nú kom María og þeir sem hjá henni voru í húsinu út til Jesú. María fèll honum til fóta og sagdi: „herra! hefdir þú verid hèr, væri bródir minn ekki dáinn". Þegar Jesús sá hana gráta, og þá Gydinga, sem med henni høfdu komid, líka, komst hann ákaflega vid og sagdi: „hvar hafid þèr lagt hann?" Þeir svørudu: „herra! kom þú og sjá". Jesús grèt þá; en er Gydingar sáu þad, søgdu þeir: „sjá, hversu hann hefir elskad hann". Þegar þeir nú komu til grafarinnar, baud Jesús ad taka steininn frá henni, hóf upp sín augu og sagdi: „Fadir! eg þakka þèr, ad þú hefir bænheyrt mig. Eg vissi ad sønnu, ad þú ávallt heyrir mig, en vegna mannfjøldans, sem hèr er saman kominn, taladi eg, svo þeir skyldu trúa því, ad þú hafir sent mig". Sídan kalladi hann hárri røddu: „Lazarus! kom þú út". Þá kom sá daudi

út, vafinn líkblæjum. Jesús sagdi: „leysid hann og látid hann fara". Þegar Gydingar, sem vidstaddir voru, sáu þetta kraptaverk, trúdu margir þeirra á Jesúm.

## 12.
## Adrar frásøgur úr lífi Jesú, er hann fór um kring og kenndi.

### 1. Hver verdur mestur í himnaríki?

Einhverju sinni, er Jesús var kominn til Kapernaum med lærisveinum sínum, spurdi hann þá, hvad þeir hefdu verid ad tala um á veginum sín á milli; en þeir þøgdu, því þeir høfdu verid ad tala um, hver mestur mundi verda í himnaríki. Jesus kalladi þá barn eitt til sín, setti þad á medal þeirra og sagdi: „sannlega segi eg ydur, nema þèr takid sinnaskipti og verdid børnum líkir, munud þèr ekki koma í himnaríki. En hver sem er lítillátur, eins og barn þetta, hann mun mestur verda í himnaríki".

## 2. Jesús blessar ungbørnin.

Menn færdu einhverju sinni ungbørn til Jesú, til þess ad hann skyldi hræra vid þeim. En lærisveinarnir ávítudu þá sem þetta gjørdu. Þegar Jesús vard þess vís, mælti hann: látid børnin koma til mín og bannid þeim þad ekki, því slíkum heyrir Guds ríki til; trúid mèr, hver sem ekki medtekur Guds ríki eins og barn, mun aldrei þangad koma". Sídan fadmadi hann børnin ad sèr, lagdi hendur yfir þau og blessadi þau.

## 3. Á einu rídur mest.

Einu sinni þegar Jesús var kominn í Betaníu, þar sem Lazarus bjó, settist María, systir hans, til fóta Jesú, og hlýddi hans kenningu. Marta hafdi mikil umsvif med ad standa þeim fyrir beina. Hún gekk þá til Jesú og sagdi: „hirdir þú ekki um þad, herra! ad systir mín lætur mig eina ganga um beina? seg henni ad hún hjálpi mèr". Jesús svaradi henni: „Marta! Marta! þú hefir mikla áhyggju og umsvif fyrir mørgu, en á einu rídur

mest. María hefir valið sèr hið góða hlutskiptið, og það mun ekki frá henni takast".

4. Sakeus.

Jesús ferðaðist einu sinni gegnum Jerikó. Þar bjó maður, sem Sakeus hèt, tollheimtumaður og auðugur að fè. Hann leitaði tækifæris að sjá Jesúm, en gat ekki fyrir mannfjøldanum, því maðurinn var lítill vexti; hljóp hann þá fyrir og klyfraði upp í eitt trè. Þegar Jesús kom þangað og sá hann, sagði hann: „Sakeus! skunda þú ofan, því að í dag ber mèr að dvelja í húsi þínu". Hann fór þá ofan með flýti og tók við honum næsta glaður. En þeir, sem sáu þetta, lètu illa við, og søgðu: „hann tekur sèr gistingu hjá bersyndugum". Þá sagði Sakeus við Jesúm: „helming fjár míns gef eg fátækum, og hafi eg nokkuð ranglega af øðrum, gef eg honum ferfalt aptur". Jesús svaraði honum: „í dag er heill sken húsi þessu, því að þessi maður er og af Abrahams ætt; en

mannsins sonur er kominn að leita að því, sem tapað var, og frelsa það".

## 13.
## Óvinir Jesú.

Í liðug þrjú ár fór Jesús um Gyðingaland, framdi góðverk, og kenndi um frelsi syndugra manna. Samt var það lítill hluti fólksins, sem trúði á hann; því flestir hugsuðu meira um sína líkamlega en andlega neyð; þeir vonuðu eptir, að þegar frelsarinn kæmi, mundi hann stofna jarðneskt ríki, og gjøra Gyðinga að voldugri þjóð. Þeir voru því óánægðir, er þeir sáu, að Jesús vildi ekki vera jarðneskur konungur.

Prestarnir og hinir skriptlærðu Fariseear voru einkum óvinveittir Jesú. Þeir þóttust heilagir og rèttlátir, og vildu vera heiðraðir af mønnum; en Jesús þekkti vonzku þeirra, ávítaði þá fyrir dramb þeirra og hræsni, og varaði fólkið við þeim. Þetta gramdist þeim, og reyndu þeir til að æsa fólkið á móti

honum. Því fremur Jesús með kenningu sinni og kraptaverkum sannaði, að hann væri Guðs sonur, því meir forhertust þeir í vantrú sinni og hötuðu og ofsóttu hann. Þegar Jesús hafði uppvakið Lazarus, komu þeir saman og sögðu sín á milli: „hvað eigum vèr að gjöra? því þessi maður gjörir mörg jarðteikn. Ef vèr sleppum honum svona, munu allir trúa á hann“. Þeir ráðgjörðu því að lífláta hann, og gáfu það boðorð, að ef nokkur vissi hvar hann væri, skyldi hann segja til, svo þeir gætu handtekið hann.

## 14.
## Jesús ríður inn í Jerúsalem.

Jesús hafði sagt lærisveinum sínum fyrir, að hann í Jerúsalem mundi mæta illri meðferð af höfuðprestunum og þeim skriptlærðu, og verða líflátinn. En þetta skèði ekki fyrri en hann vildi sjálfur, og hafði lokið því, sem honum var áður ætlað að gjöra. Þegar tíminn var kominn, fór hann með lærisvein-

um sínum til Jerúsalem. En er hann kom að Viðsmjörsviðarfjallinu, lèt hann sækja ösnu og reið henni til borgarinnar, eins og Sakarías spámaður hafði sagt fyrir: „segið Síons dóttur: sjá, þinn konungur kemur til þín hógvær, ríðandi ösnu og fola hennar“. En er það frèttist, að Jesús kæmi, gekk mikill mannfjöldi á móti honum, með pálmaviðargreinir í höndunum, og margir breiddu klæði sín á veginn, og aðrir hjuggu lim af trjánum og stráðu því á brautina og kölluðu og sögðu: „styrk þú, Drottinn! þenna niðja Davíðs. Blessaður sè þessi, sem kemur í umboði Drottins“.

Þegar Jesús kom nær borginni, grèt hann yfir henni og sagði: „æ, að þú að minnsta kosti á þessum þínum degi vissir hvað til þinnar velferðar heyrði, en nú er þèr það hulið. Sá tími mun koma yfir þig, að óvinir þínir munu gjöra hervirki um þig, setjast um þig, og þröngva þèr á alla vegu, leggja þig að velli og börn þín, sem í þèr eru, og ekki láta stein yfir steini standa, vegna þess þú

gafst ekki gaum að þínum vitjunartíma". Jesús fór síðan inn í Jerúsalem, gekk inn í musterið, og læknaði þar blinda og halta, sem komu til hans.

Það var næsta sunnudag fyrir Páska, að Jesús kom inn í Jerúsalem, og um kvøldið fór hann til Betaníu með sínum tólf lærisveinum, en dagana þar eptir kom hann aptur í musterið og kenndi. Þetta gramdist því meir prestunum og hinum skriptlærðu, og leituðust þeir því við að ráða hann af døgum, en þó fundu þeir ekkert, er þeir gætu gjørt, því allt fólkið hnè að honum og hlýddi honum. Á miðvikudaginn komu þeir saman hjá høfuðprestinum, og ráðguðust um, hvernig þeir gætu náð Jesú með brøgðum, án þess fólkið yrði vart við. Þá kom til þeirra Júdas frá Kariot, sem var einn af þeim tólf, og spurði hvað þeir vildu gefa sèr til að koma Jesú á þeirra vald. Urðu þeir glaðir við og greiddu honum þrjátíu silfur-

peninga; en Júdas sat nú eptir tækifæri að svíkja Jesúm í hendur þeirra.

## 15.

## Innsetning heilagrar kvøldmáltíðar.

Á fimtudagskvøldið eptir að Jesús kom til Jerúsalem, byrjuðu Páskar Gyðinga. Á því kvøldi var Jesús kominn saman með sínum tólf postulum, og át páskalambið með þeim, eptir venju Gyðinga. Þegar þeir voru komnir undir borð, tók Jesús svo til orða: „trúið mèr, að einn af yður mun svíkja mig“. Skømmu síðar fór Júdas burtu og gekk til høfuðprestanna.

Þegar þeir sátu undir borðum, tók Jesús brauðið, gjørði þakkir, braut það og gaf sínum lærisveinum og sagði: „takið og etið, það er minn líkami, sem fyrir yður verður gefinn; gjørið það í mína minningu“. Síðan tók hann kaleikinn, gjørði þakkir, gaf þeim hann og sagði: „drekkið allir hèr af; það er kaleikur hins nýja sáttmála í mínu blóði, sem fyrir

ydur úthellist, til fyrirgefningar syndanna. Gjørid þetta, svo opt sem þèr þad drekkid, í mína minningu".

Eptir ad Jesús hafdi med þessum ordum innsett heilaga kvøldmáltíd, taladi hann þetta kvøld marga hluti vid þá ellefu postula sína. Hann sagdi þeim, ad hann yrdi nú ekki nema stutta stund hjá þeim; en þeir skyldu ekki vera hryggvir af því, því hann færi ad til reida þeim stad í húsi fødur síns, og þegar hann væri farinn, skyldi hann senda þeim heilagan anda, sem mundi kenna þeim allt. Hann sagdi þeim einnig, ad þeir mundu sjá hann aptur, og þá mundu hjørtu þeirra fagna, og enginn taka þann føgnud af þeim. Loksins hóf Jesús augu sín til himins, og bad til síns himneska fødur fyrir postulum sínum, og fyrir øllum, sem mundu trúa á hann fyrir þeirra ord.

Þegar Jesús hafdi lokid bæn sinni, gekk hann um nóttina med postulum sínum út úr Jerúsalem til grasgardsins Getsemane á

Viðsmjørsviðarfjallinu, þar sem hann var opt vanur að vera með sínum lærisveinum. Á leiðinni sagði hann við Pètur: „nú í nótt, áður en haninn hefir galað tvisvar, muntu þrisvar hafa afneitað mèr“. En Pètur svaraði: „þótt eg ætti að láta líf mitt með þèr, skyldi eg þó aldrei afneita þèr“.

## 16.

## Pína og dauði Jesú.

### 1. Jesús í grasgarðinum Getsemane.

Þegar Jesús kom til Getsemane, tók hann með sèr Pètur, Jakob og Jóhannes inn í grasgarðinn, og sagði við þá: „mín sál er hrygg allt til dauðans; bíðið hèr og vakið með mèr“. Þá gekk hann lengra fram, fèll niður á sína ásjónu, bað og sagði: „faðir minn! ef það er møgulegt, þá líði þessi kaleikur frá mèr; þó ekki eins og eg vil, heldur eins og þú vilt“. Síðan kom hann aptur til lærisveinanna, og er hann fann þá sofandi, sagði hann til Pèturs: „gátuð þèr þá ekki

vakad med mèr eina stund. Vakid og bidjid, ad þèr fallid ekki í freistni; andinn er ad sønnu reidubúinn, en holdid er veikt". Jesús gekk þá aptur frá þeim og bad hinni sømu bæn; og er hann badst fyrir í þridja sinni, kom engill frá himni og styrkti hann. Þá stód hann upp, gekk til lærisveinanna og sagdi vid þá: „stundin nálgast, ad mannsins sonur verdur framseldur á vald vondra manna".

Í því bili kom Júdas og med honum fjøldi af þjónum høfudprestanna, sem báru blys og vopn. Júdas hafdi sagt þeim, ad sá sem hann kyssti væri Jesús, þann skyldu þeir høndla. Þegar Júdas nú kom og kyssti Jesúm, sagdi hann: „vinur! því ertu hèr kominn? svíkur þú mannsins son med kossi?" Þá gengu þeir til Jesú, løgdu hendur á hann og gripu hann, og fóru med hann til høfudprestsins. En lærisveinarnir yfirgáfu hann og flýdu.

## 2. Jesús fyrir andlegum rètti Gydinga.

Jesús var um nóttina leiddur til høfud-

prestsins, og voru þar komnir saman prestarnir, hinir skriptlærdu og öldungar lýdsins. Þetta var rádssamkoma Gydinga, og voru í henni sjötíu manns. Þeir leitudu fyrst ljúgvotta gegn Jesú, ad þeir kynnu ad dæma hann til dauda. En er þetta tókst ekki, því vitnisburdirnir urdu ekki samhljóda, stód höfudpresturinn, sem hèt Kaífas, upp og sagdi vid Jesúm: „eg særi þig vid enn lifanda Gud, ad þú segir oss, ef þú ert Kristur, sonur Guds". Jesús svaradi: „eg em hann". Þá sagdi höfudpresturinn: „hann gudlastar; hvad þurfum vèr nú framar vitnanna vid?" Þeir kvádu hann nú allir dauda sekan, en sumir hæddu og slógu hann.

Á medan Jesús var fyrir rádssamkomunni, var Pètur kominn inn í höll höfudprestsins, og sat þar vid eld med þjónum hans, og vermdi sig. Þá kom ein af þernum höfudprestsins, og er hún leit Pètur, spurdi hún, hvert hann væri ekki einn af lærisveinum Jesú. En Pètur vard hræddur og neitadi

því. Þá leit önnur þerna hann, og sagði að hann væri einn af þeim; en Pètur neitaði því aptur. Skömmu síðar sögðu nokkrir af þeim, sem þar stóðu: „víst ertu einn af þeim því málfæri þitt er því líkast, sem þú værir Galíleari“. En Pètur neitaði í þriðja sinni, sór og sárt við lagði, að ekki bæri hann kennsl á þann mann, er þeir töluðu um. Þá gól haninn í annað sinn. Þá snèri Drottinn sèr við og leit til Pèturs, en Pètur minntist þess, sem Drottinn hafði áður sagt við hann, og gekk út og grèt sáran.

En er Júdas sá að Jesús var til dauða dæmdur, iðraðist hann þess, er hann hafði gjört, skilaði prestunum aptur þeim þrjátíu silfurpeningum og mælti: „illa gjörði eg, er eg sveik saklausan mann“. En þeir sögðu það kæmi sèr ekki við, og báðu hann sjálfan fyrir sjá. Júdas kastaði þá silfrinu á musterisgólfið, skundaði þaðan og hengdi sig.

### 3. Jesús fyrir Pílatusi.

Þegar höfuðpresturinn og ráðssamkoman

høfðu dæmt Jesúm til dauða, færðu þeir hann til hins rómverska landsstjórnara, sem hèt Pontsíus Pílatus, til þess að fá dóm sinn staðfestan. Til þess að fá þessu framgengt, ákløguðu þeir Jesúm og søgðu: „þenna mann høfum vèr fundið að afvegaleiða alþýðuna, og banna að gjalda keisaranum skatt, og segja sig að vera konunginn Krist". Þá, spurði Pílatus, hvert hann væri konungur Gyðinga; en Jesús svaraði: „mitt ríki er ekki af þessum heimi". En er Pílatus spurði hann aptur, svaraði Jesús: „rètt segir þú, að eg sè konungur; til þess er eg fæddur, og til þess er eg í heiminn kominn, að eg beri vitni sannleikanum, og hver, sem elskar sannleikann, sá hlýðir minni røddu". Pílatus sá nú að Jesús var saklaus, og vildi helzt láta hann lausan. En hann óttaðist óvild af høfðingjum Gyðinga, og vildi því fá fólkið til að biðja um, að Jesús væri gefinn laus. Hann kom því með morðingja einn og ræningja, sem hèt Barabbas, og sagði við fólkið: „það er venja

hjá ydur, ad eg á Páskum gefi ydur einn lausan, hvern þessara tveggja viljid þèr nú ad eg gefi ydur lausan?" En prestarnir høfdu eggjad alþýduna á móti Jesú, svo allir æptu: „ekki þenna, heldur Barabbas". Og er Pílatus nú sagdi: „hvad viljid þèr þá ad eg gjøri vid Gydingakonunginn, er þèr svo nefnid?" Þá kølludu þeir: „krossfestu, krossfestu hann". Pílatus tók þá vatn og þvodi hendur sínar, svo allir sáu, og mælti: „sýkn er eg í lífláti þessa saklausa manns, sjáid þèr fyrir því". Þá kalladi fólkid: „komi blód hans yfir oss og børn vor".

Pílatus lèt sídan húdstrýkja Jesúm, og strídsmennirnir færdu hann til hádungar í purpurafat, flèttudu kórónu af þyrnum og settu á høfud honum, og gáfu honum reyr í hønd. Sídan leiddi Pílatus hann út aptur til fólksins og sagdi: „sjá manninn". En þeir kølludu: „krossfestu, krossfestu hann". Pílatus leitadist enn nú vid ad láta hann lausan; en þá kølludu Gydingar: „ef ad þú

10

sleppir honum, þá ertu ekki vinur keisarans". Þegar Pílatus heyrði þetta, fékk hann þeim Jesúm, að hann yrði krossfestur.

4. Krossesting Jesú.

Það var á föstudaginn um níundu stundu fyrir hádegi, að Pílatus dæmdi, að Jesús skyldi verða krossfestur. Var hann þá leiddur út til staðar þess, sem hét Golgata, og krossfestur þar. En er þeir krossfestu hann, sagði Jesús: „faðir! fyrirgef þeim, þeir vita ekki hvað þeir gjöra".

Við krossinn stóð móðir Jesú, og lærisveinn sá, sem hann elskaði. Þegar Jesús sá þau, sagði hann við móður sína: „kona! sjá, þar er þinn sonur"; og við Jóhannes sagði hann: „sjá, þar er þín móðir". Frá þeirri stundu tók Jóhannes hana heim til sín.

Með Jesú voru krossfestir tveir ræningjar, sinn til hvorrar hliðar. En er fólkið, sem stóð hjá, spottaði hann, hæddi einnig annar ræninginn hann, og sagði: „sértu Kristur,

þá frelsaðu sjálfan þig og okkur". Hinn ræninginn ávítaði hann og sagði: „við líðum að sønnu maklega fyrir okkar athæfi, en þessi hefir ekkert illt aðhafzt". Síðan sagði hann við Jesúm: "minnst þú mín, herra! þegar þú kemur í ríki þitt". Jesús svaraði: „sannlega segi eg þèr: í dag skaltu vera með mèr í Paradís".

Eptir hádegi varð í þrjár stundir myrkur yfir allt landið, og um nónbil kallaði Jesús og sagði: „Guð minn! Guð minn! því hefir þú yfirgefið mig?" Aptur kallaði Jesús: „mig þyrstir". Þá hljóp einn til, og gaf honum edik að drekka. En er Jesús hafði tekið til sín edikið, sagði hann: „það er fullkomnað". Og aptur hrópaði hann hárri røddu: „faðir! í þínar hendur fel eg minn anda"; hneigði síðan høfuðið, og gaf upp andann.

Þá skalf jørðin, bjørgin klofnuðu, og fortjald musterisins rifnaði í tvennt, ofan frá og niður í gegn. Skømmu síðar komu stríðsmennirnir til að gæta að, hvert hinir kross-

festu væru dánir. En er þeir sáu, að Jesús var þegar dáinn, stakk einn þeirra spjóti í síðu hans, og kom þar út blóð og vatn.

### 5. Greptrun Jesú.

Þegar Jesús var dáinn á krossinum, fóru um kvöldið tveir guðhræddir ráðherrar, Jósep frá Arimatía og Nikódemus, og tóku líkama Jesú af krossinum, og greptruðu hann, eptir venju Gyðinga, í gröf, sem úthöggvin var í kletti, og veltu stórum steini fyrir dyrnar.

Síðan fóru hinir æðstu prestar til Pílatusar og sögðu: „oss er það í minni, að meðan villumaður þessi lifði, kvaðst hann mundi upprísa innan þriggja daga. Lát þú því gæta legstaðarins allt til þess þriðja dags, að ekki komi lærisveinar hans og steli honum, segi síðan lýðnum, að hann sè upprisinn". Fóru þeir síðan og innsigluðu steininn, en settu við gröfina varðmenn, sem Pílatus fèkk þeim.

## 17.
## Upprisa Jesú.

### 1. Páskadagsmorgun.

Á sunnudaginn, sem var þridji dagur frá því er Jesús dó, vard jardskjálfti mikill snemma um morguninn. Kom þá engill Drottins frá himni, og velti steininum frá dyrum legstadarins, og settist á hann; en Jesús reis upp úr grøfinni. Vid þetta urdu vardmennirnir daudhræddir.

Sama morgun gengu kvinnur nokkrar til grafarinnar, til ad smyrja líkama Jesú. Þær tøludust vid um þad á leidinni, hvernig þær fengju velt steininum frá grafarmunnanum. En er þær litu til, sáu þær ad steinninn var fráveltur. Fór þá ein þeirra, María frá Magdølum, til postulanna, og sagdi þeim frá þessu. Adrar konur gengu inn í grøfina og sáu þar engil, sem sagdi vid þær: „Þèr leitid ad Jesú nadverska, hinum krossfesta, hann er upprisinn og er ekki hèr“. Nú fóru þeir Pètur og Jóhannes í skyndingu til graf-

arinnar, og sáu að hún var opin, og líkblæjurnar láu þar, en Jesúm sáu þeir ekki. Skømmu síðar kom María frá Magdølum aptur til grafarinnar, og þá birtist Jesús henni og sagði: „far þú til bræðra minna, og segðu þeim, að eg muni uppstíga til míns føður og yðar føður“.

## 2. Páskadagskvøld.

Sama dag sem Jesús uppreis, fóru tveir lærisveinar hans til þorps nokkurs, sem hèt Emaus, og tøluðu á leiðinni um það, sem við hafði borið um hina seinustu daga. Jesús nálgaðist þá sjálfur, og kom í ferð með þeim; en þeir þekktu hann ekki. Hann gaf sig nú á tal við þá, og søgðu þeir honum, að þeir hefðu heyrt það, sem kvinnur þær søgðu frá, er snemma morguns høfðu komið til grafarinnar; en þeir trúðu því ekki, og voru hryggvir. Þá sagði Jesús við þá: „en hvað þèr eruð heimskir og tregir á að trúa því, sem spámennirnir hafa sagt; átti ekki Kristur að líða þetta, og innganga svo í sína dýrð?“

Og hann útlagdi fyrir þeim allt það í ritningunum, er hlýddi upp á hann. En er þeir nálguðust þorpið, lèt hann sem hann ætladi lengra að fara. En þeir báðu hann og sögðu: „vertu hjá oss, því kvöld er komið og dagur liðinn“. Hann fór þá inn með þeim; en er þeir settust til borðs, tók hann brauðið, gjörði þakkir og braut það, og deildi milli þeirra. Þá opnuðust augu þeirra, svo þeir þekktu hann, en þá hvarf hann þeim. Þeir stóðu þá strax upp og fóru aptur til Jerúsalem, og hittu þar postulana samansafnaða, sem sögðu, að Drottinn væri upprisinn og hefði birzt Símoni (Pètri). Þessir tveir lærisveinar sögðu nú frá því, sem við hafði borið á veginum; en á meðan þeir voru að tala um þetta, stóð Jesús sjálfur meðal þeirra og sagði: „friður sè með yður“. Urðu þeir þá mjög glaðir, að þeir sáu Drottinn.

### 3. Tómas.

Þegar Jesús birtist lærisveinunum á upprisudegi sínum, var einn þeirra, sem hèt Tóm-

as, ekki vidstaddur. Þegar hinir nú sögdu honum frá, ad þeir hefdu sèd Drottinn, sagdi hann: „sjái eg ekki naglaförin í hans höndum, og láti fingur minn í þau, og mína hönd í hans sídu, þá trúi eg ekki". Átta dögum sídar voru lærisveinarnir aptur komnir saman, og Tómas med þeim. Þá stód Jesús allt í einu á medal þeirra og sagdi: „fridur sè med ydur". Sidan sagdi hann vid Tómas: „kom þú hingad med fingur þinn, og skoda hendur mínar; kom þú med þína hönd, og legg í mína sídu; vertu ekki vantrúadur, heldur trúadur". Þá sagdi Tómas til hans: „Drottinn minn og Gud minn!" En Jesús sagdi: „af því þú sást mig, Tómas! trúdir þú; en sælir eru þeir sem trúa, þótt þeir ekki sjái".

## 18.

## Himnaför Jesú.

Sá upprisni Jesús birtist opt postulum sínum í fjörutíu daga, og taladi vid þá um Guds ríki. Þá sáu hann líka adrir en post-

ularnir, og einusinni fimm hundrud manns í einu. En er leid á þá fjørutíu daga, birtist hann lærisveinunum á fjalli einu í Galíleu, og sagdi vid þá: „allt vald er mèr gefid á himni og jørdu; farid og gjørid allar þjódir ad mínum lærisveinum, og skírid þær í nafni fødursins, sonarins og þess heilaga anda, og bjódid þeim ad halda allt, sem eg baud ydur, og sjáid eg er med ydur, allt til veraldar enda". Loksins fór hann med þá upp á Vidsmjørsvidarfjallid hjá Betaníu. Þar hóf hann upp hendur sínar og blessadi þá, og vard ad þeim ásjáandi upp numinn til himins, og ský nam hann frá augum þeirra.

Nú sem þeir størdu til himins, er hann fór frá þeim, þá stódu tveir menn hjá þeim í hvítum klædnadi, og søgdu: „Galíleisku menn? hví standid þèr og horfid til himins? Þessi Jesús, sem upp numinn er frá ydur til himins, mun koma á sama hátt og þèr sáud hann fara til himins". Þá tilbádu postularnir Drottinn, og snèru aptur til Jerúsal-

em næsta glaðir, og lofuðu og vegsömuðu Guð.

## 19.

## Heilagur andi kemur yfir postulana.

Drottinn hafði boðið postulum sínum, að fara ekki burtu úr Jerúsalem, þangaðtil heilagur andi kæmi yfir þá, og hafði hann sagt þeim, að það mundi ekki líða á löngu. Um þær mundir kusu þeir einn af lærisveinum Jesú, sem hèt Mattías, til að vera postuli í stað Júdasar. Þegar þeir nú allir tólf voru komnir saman á hvítasunnudaginn, tíu dögum eptir himnaför Krists, kom skyndilega þytur frá himni, eins og aðdynjanda sterkviðris, og fyllti allt húsið, þar þeir sátu í. Og þeir sáu tungur, eins og af eldi væru, er kvísluðust og settu sig yfir sèrhvern þeirra; og þeir urðu allir fullir af heilögum anda, og tóku að tala annarlegum tungum, eins og andinn gaf þeim að tala.

Mikill mannfjöldi þyrptist nú saman og undraðist þetta. Pètur stóð þá upp, og tal-

adi til þeirra, og sagdi, ad nú rættist þad, sem Guð hefdi heitid fyrir spámanninn Jóel, ad á sídustu døgum mundi Guð úthella af anda sínum yfir allt hold, menn og konur, eldri og yngri. Sídan taladi Pètur margt til fólksins um hinn krossfesta og upprisna Jesúm, sem nú væri upp hafinn til Guðs hægri handar, og hefdi sent þeim heilagan anda. Ræda Pèturs gjørdi áhrif á marga, og þeir søgdu vid postulana: „hvad skulum vèr gjøra, gódir menn og brædur?" Pètur sagdi þá til þeirra: „takid sinnaskipti, og hver ydar láti skíra sig til nafns Jesú Krists, til fyrirgefningar syndanna; þá munud þèr ødlast gjøf heilags anda". Og á þeim degi voru nær þrjár þúsundir manna, sem lètu skírast.

Upp frá þessu bættust daglega nokkrir vid søfnudinn, og hinir trúudu hèldu saman, og høfdu allt sameginlegt, nutu kennslu af postulunum, komu saman til bænahalds og til ad tidka nautn kvøldmáltídarinnar. Enginn leid skort á medal þeirra, því hinir ríku gáfu hinum fátæku af gózi sínu.

## 20.
## Postularnir fyrir ráði Gyðinga.

Jesús hafði gefið postulum sínum vald til að gjøra kraptaverk í hans nafni, og eptir að heilagur andi var kominn yfir þá á hvítasunnu hátíðinni, gjørðu þeir mørg þvílík verk. Eitt sinn gengu þeir Pètur og Jóhannes ásamt upp í musterið. Sat þar þá við dyrnar maður, sem hafði verið haltur frá móðurlífi. Hann hafði látið bera sig þangað, svo hann gæti beðið sèr ølmusu af þeim, er gengu í musterið. Þegar Pètur og Jóhannes ætluðu að ganga þar inn, bað hann þá að gefa sèr. Þá sagði Pètur við hann: „silfur og gull á eg ekki, en hvað eg hefi, það gef eg þèr. Statt upp og gakk í nafni Jesú Krists". Hann spratt þegar upp, gekk um kring og lofaði Guð. Þegar fólkið sá þetta, undraðist það, og Pètur hèlt nú ræðu, og hvatti lýðinn til að taka sinnaskipti og trúa á Jesúm Krist. Margir, sem høfðu heyrt ræðuna, trúðu. En prestunum og hin-

um skriptlærðu gramdist, að postulunum tókst svo mikið við fólkið, og lögðu þeir hendur á þá Pètur og Jóhannes, og leiddu þá fram fyrir ráðið. Þar töluðu þeir svo einarðlega, að alla furðaði á því. Voru þeir þá látnir lausir, en harðlega bannað að kenna í Jesú nafni.

En þeir hèldu áfram kenningu sinni, og leið ekki á löngu, áður þeir aptur voru kallaðir fyrir ráðið, ásamt hinum öðrum postulunum. Prestahöfðinginn sagði þá til þeirra: „höfum vèr ekki lagt ríkt á við yður, að kenna ekki í þessu nafni? samt hafið þið fyllt Jerúsalem með ykkar kenningu". Þá svaraði Pètur: „framar ber að hlýða Guði en mönnum. Guð feðra vorra hefir upp vakið Jesúm, hvern þèr líflètuð og upphengðuð á trèð. Þenna foringja og frelsara hefir Guð upphafið með sinni hægri hendi, svo hann veiti Ísrael apturhvarf og syndanna fyrirgefningu, og vèr erum hans vottar að þessu". Nú urðu ráðherrarnir svo gramir, að þeir voru

álráðnir í að lífláta þá. En í ráðinu var gætinn maður, løgspekingur nokkur, að nafni Gamaliel. Hann rèði til að láta postulana lausa, og sagði, að ef þeirra fyrirtæki væri af mønnum, mundi það falla sjálfkrafa, en væri það frá Guði, þá megnuðu þeir ekki að kefja það. Ráðherrarnir fèllust á þetta, og lètu postulana lausa, en húðstrýktu þá fyrst, og fyrirbuðu þeim að tala í Jesú nafni. En postularnir hættu ekki að kenna hvern dag í musterinu og í húsunum. Guðs orð útbreiddist nú óðum, og jafnvel fjøldi presta tók trú.

## 21.

## Stefán.

Auk postulanna voru einnig aðrir menn, sem kenndu lærdóminn um Jesúm, og staðfestu kenninguna með kraptaverkum. Á meðal þessara skaraði einkum einn fram úr, sem hèt Stefán. Hann var einnig leiddur fyrir ráðið, og hèlt hann þar ræðu og ávítaði

Gydinga fyrir vantrú þeirra. Af þessu skárust þeir í hjørtum og gnístu tønnum yfir honum. En Stefán horfdi med rósemi til himins og sagdi: „sjá, eg sè himnana opna, og mannsins son standa til hægri handar Gudi". Þeir rèdust þá á hann, hnepptu hann út af borginni og grýttu hann. Á medan þeir grýttu hann, badst hann fyrir og sagdi: „herra Jesú! medtak þú minn anda". Sídan fèll hann á knè og hrópadi hástøfum: „Drottinn! lát þá ekki gjalda þessarar syndar". Og sem hann hafdi þetta sagt, sofnadi hann.

Stefán vard þannig hinn fyrsti píslarvottur medal kristinna manna; því þá, sem lidu daudann fyrir trúna, eru menn vanir ad nefna þannig.

## 22.
## Kornelius.

Drottinn hafdi bodid postulum sínum, ad fara og gjøra allar þjódir ad hans

lærisveinum; en samt sem áður skírðu þeir í fyrstu ekki heiðingja, heldur eingöngu Gyðinga, því þeir hèldu, að heiðingjar yrðu fyrst að taka Gyðinga trú, áður þeir gætu orðið kristnir. Einhverju sinni var Pètur staddur í borginni Joppe; komu þá til hans menn nokkrir, er voru sendir frá guðhræddum heiðnum manni, sem hèt Kornelíus, og átti heima í borginni Sesareu. Þeir sögðu frá því, að Kornelíus, þegar hann gjörði bæn sína til Guðs, hefði sèð engil Drottins, sem sagði til hans: „Kornelíus! þínar bænir eru uppstignar fyrir Guð, og send þú nú menn til Joppe, að láta sækja Símon þann, er kallast Pètur; þá hann kemur, mun hann fræða þig“. Í því menn þessir komu, hafði Pètur einnig haft vitrun, og er hann heyrði erindi þeirra, þá skildi hann, að vitranin bauð honum að fara með þeim til Kornelíusar. Pètur fór því með þeim, og er hann kom til Sesareu, talaði hann um Krist við Kornelíus og þá sem með honum voru. En

á medan hann var ad tala, kom heilagur andi yfir alla þá, sem ræduna heyrdu, svo þeir tøludu annarlegar tungur og lofudu Gud. Þá sagdi Pètur: „getur nokkur varnad þeim vatnsins, ad þeir skíriſt ekki, sem medtekid hafa heilagan anda, eins og vèr?“ Voru þeir þá allir skírdir, og eptir þetta voru heidingjar teknir inn í søfnudinn, engu sídur en Gydingar.

## 23.
## Páll postuli.

Skømmu ádur en hinir fyrstu heidingjar voru skírdir, kalladi Drottinn mann nokkurn til postula, sem einkanlega var ætlad ad kenna heidingjum; hann hèt Sál eda Páll. Hann hafdi ádur ofsótt kristna menn, og þegar Stefán var grýttur, stód hann hjá og horfdi á þad med ánægju. Skømmu sídar fór hann til borgarinnar Damaskus í Sýrlandi, til ad handtaka kristna menn, sem þar kynnu ad vera, og færa þá bundna til Jerúsalem. En þeg-

ar hann nálgadist Damaskus, leiptradi skyndilega um hann ljós af himni, svo hann datt til jardar og heyrdi rødd segja vid sig: „Sál! Sál! hví ofsækir þú mig?“ Hann annsadi: „herra! hver ert þú?“ Drottinn svaradi: „eg er Jesús, hvern þú ofsækir. Statt upp og gakk inn í borgina, þar skal þèr verda sagt, hvad þèr ber ad gjøra“. Þá stód hann upp og fór til borgarinnar; en førunautar hans urdu ad leida hann, því hann var ordinn blindur. Í Damaskus var kristinn madur einn, sem hèt Ananías. Drottinn vitradist honum, og baud honum ad fara til Sáls. En er Ananías furdadi sig á þessu, því hann hafdi heyrt svo mikid illt um Sál, þá sagdi Drottinn til hans: „fardu, því þessi er mèr útvalid verkfæri til ad bera nafn mitt fram fyrir heidnar þjódir og konunga og fyrir Ísraels børn“. Ananías fór þá til Sáls, lagdi hendur yfir hann og mælti: „Drottinn sendi mig (Jesús, sem þèr birtist á vegi þeim, er þú komst hingad), svo þú fengir aptur sjón

þína og fylltist heilögum anda". Þá fèkk hann sjónina og stód upp, og var skírdur. Tók hann strax til ad kenna um Drottinn, og undrudust þad allir.

Páll ferdadist sídan til Antiokíu, sem var höfudborg Sýrlands. Þar kenndi hann í heilt ár, og í þeirri borg voru þeir, sem trúdu á Jesúm, fyrst kalladir kristnir. Sídan ferdadist Páll í mörg ár um Litlu-Asíu, Masedoníu og Grikkland, og bodadi trú bædi heidingjum og Gydingum; því þá höfdu Gydingar tekid sèr bústadi á víd og dreif um veldi Rómverja. Kenningu hans var vída vel tekid, og söfnudir komu upp í þessum löndum.

En opt hlaut Páll ad lída ofsóknir, einkum af Gydingum. Einhverju sinni, er hann kom af ferdum sínum heim til Jerúsalem, handtóku Gydingar hann, og vildu lífláta hann. En landshöfdinginn setti hann í dýflissu, flutti hann til Sesareu, og hèlt honum þar föngnum í tvö ár. Sídan var hann sendur til

Rómaborgar, svo hann yrdi dæmdur af keisaranum, og var hann þar tvø ár í varðhaldi; en margir komu samt til hans, og hann bodadi þeim Guds ríki med allri djørfung. Eptir ad Páll var látinn laus, ferdadist hann á ný; en er hann kom nokkru sídar til Rómaborgar, hafdi Neró keisari hafid óttalega ofsókn gegn kristnum. Margir voru grimmilega líflátnir, og þá var Páll einnig tekinn og hálshøggvinn. Skømmu fyrir dauda sinn skrifadi hann Tímóteusi, lærisveini sínum, þetta: „eg hefi barizt gódri baráttu, hlaupid fullkomnad, trúnni haldid. Ad sídustu er mèr afsídis løgd kóróna rèttlætisins".

Um sama leyti dó einnig Pètur eins og píslarvottur í Rómaborg; hann var krossfestur.

## 24.
## Eydilegging Jerúsalemsborgar.

Drottinn hafdi sagt, ad sá tími mundi koma, ad óvinir mundu setjast um Jerúsalem, og leggja hana ad velli, og ekki láta í henni stein yfir steini standa, því hún gæfi ekki gaum ad sínum vitjunartíma. Spádómur þessi rættist sjøtíu árum eptir fædingu Krists. Gyding-

ar gjørðu uppreisn á móti Rómverjum, og sendu þeir þá ógrynni liðs, sem settist um Jerúsalem. Gyðingar vørðust røsklega, og vildu ekki gefast upp, þó þeir liðu nauð mikla, og margar þúsundir dæju af hungri. En Títus, hershøfðingi Rómverja, náði loks borginni, og var nú musterið brennt upp, borgin eyðiløgð, en innbúar hennar seldir í ánauð.

Kristnir menn, sem bjuggu í Jerúsalem, komust hjá eyðileggingu þessari; því þeir fluttu sig úr borginni í byrjun stríðsins, er þeir sáu hvað í vændum var.

## 25.

## Jóhannes postuli.

Jóhannes varð elztur postulanna og lifði lengi eptir eyðileggingu Jerúsalemsborgar; hann bjó optast í borginni Efesus í Litlu-Asíu. Einn af keisurum Rómverja sendi hann í útlegð til eyjarinnar Patmus fyrir vestan Litlu-Asíu; en hann var aptur látinn laus, og fór til Efesus, og andaðist þar, nær hundrað ára gamall. Í biflíunni er ekkert sagt frá hinum seinustu lífdøgum hans; en í annari gamalli bók er greint frá því, að þegar Jóhannes var

ordinn fjørgamall, og gat ekki lengur komizt á samkomur kristinna manna, lèt hann bera sig þangað, og sagði í hvert skipti ekki annað en þetta: „børn mín! elskið hver annan“.

## 26.
## Bækur nýja testamentisins.

Sá hluti ritningarinnar, sem kallast nýja testamentið, er ritaður af nokkrum af postulum Drottins, og samþjónum þeirra. Bækur nýja testamentisins eru þessar:

Fjøgur guðspjøll, rituð af Matteusi, Markúsi, Lúkasi og Jóhannesi. Í þeim er frásagan um líf Jesú, kenningar hans og verk þau, sem hann gjørði. Tveir af guðspjallamønnunum, Matteus og Jóhannes, voru postular Jesú. Markús var førunautur Pèturs postula, en Lúkas fylgdist lengi með postulanum Páli.

Næstu bókina, sem heitir Postulanna gjørningar, hefir Lúkas guðspjallamaður ritað; í henni eru frásagnir um postulana, einkum Pètur og Pál.

Á eptir þessum søgubókum koma brèf nokkur, sem rituð eru af postulunum, og eru í þeim margir kristilegir lærdómar og áminningar.

Þrettán brèf hefir Páll postuli ritað til ýmsra kristinna safnaða, og sum þeirra til lærisveina sinna eður vina. Eitt brèfið er ritað til safnaðarins í Rómaborg, tvø til safnaðarins í Korintuborg, eitt til safnaðanna í Galatalandi, eitt til safnaðarins í Efesus, eitt til safnaðarins í Filippiborg, eitt til safnaðarins í Kolossaborg, tvø til safnaðarins í Tessaloniku; tvø eru rituð til Tímóteusar, sem Páll hafði sett yfir søfnuðinn í Efesus, eitt til Títusar, sem hann hafði sett yfir søfnuðinn á eyjunni Krít, og eitt til Filemons, sem bjó í Kolossaborg. Brèfið til hinna Hebresku er ritað af Páli postula, eða einhverjum samþjóni hans.

Þar á eptir kemur eitt brèf eptir Jakob postula Alfeusson, tvø eptir Pètur postula, þrjú eptir postulann Jóhannes, og eitt eptir Júdas Taddeus, postula.

Hin síðasta bók nýja testamentisins kallast Opinberunarbók. Í henni lýsir Jóhannes postuli vitrun þeirri, sem birtist honum á eyjunni Patmus, um baráttu og sigur kristilegrar kirkju.



# Tímareikningur.

| | | |
|---|---|---|
| Skøpun heimsins . . . | hér um bil 4000 árum fyrir Krists fæðingu | |
| Abraham . . . . . . . . . | —— 2000 | — |
| Móses . . . . . . . . . . | —— 1500 | — |
| Davíð . . . . . . . . . . | —— 1050 | — |
| Skipting ríkisins . . . . . . | —— 975 | — |
| Herleiðingin til Babýlonar . . | —— 600 | — |
| Heimförin frá Babýlon . . | —— 530 | — |
| Alexander hinn mikli . . . | —— 330 | — |
| Makkabear verða oddvitar Gyðinga | —— 170 | — |
| Gyðingar komast undir Rómverja | —— 63 | — |

| | | |
|---|---|---|
| Páll postuli tekur trú . . . . . . . | 36 árum eptir Krists fæðingu | |
| Páll og Pétur verða líflátnir . | —— 67 | — |
| Eyðilegging Jerúsalemsborgar . | —— 70 | — |

## Leiðréttingar.

Blс. 35. línu 13, les: Egyptalandi
— 41. neðstu l. — brauð
— 43. neðstu l. — tjaldbúðar-
— 120. l. 1, — hafa
— 127. l. 3, — saman

Kosta óinnbundnar 20 sk.

